# Æfi-

og

# Útfarar-Minning

Dannibrogsmanns

# Jóns Sighvatssonar.

Á Prent útgéfin

af

Börnum hans.

Videyar Klaustri.

1842.

Arid 1759, þann 6ta Martii, fæddist Eg ad bæ þeim, er Kúhóll nefnist, í Kross Kirkju-sókn í Austur-Landeyum. Foreldrar mínir hétu Sighvatur Jónsson og Helga Jónsdóttur; búnadist þeim sæmilega, því fadir minn var talinn med heppnustu formønnum í því fiski-plátsi; sama ár og eg fæddist, fluttu foreldrar mínir ad bæ þeim í Dals sókn, er Brúnir heita, og þadan aptur árid 1761 ad næsta bæ Tjornum, hvar fadir minn bjó þángad til hann deydi 1768, en módir mín bjó þar, eptir hann, med okkur 5 børnum sínum: mér, sem var eldstur, og Gudrúnu, Sigrídi, Ragnheidi og Gudrúnu annari*). 1771 þegar eg

*) Gudrún eldri og Ragnheidur dóu í bólunni 1787. Sigrídur giptist bóndanum Tómasi Jenssyni sem nú

var 12 ára tók mig til kénslu, presturinn í Dalsþýngum, Síra Páll Magnússon, og undirbúníngs undir Konfirmatión, og veit eg ei gjørla hvørt það var uppá fátækra reikníng, eða í vináttu skyni við móður mína; var eg af sama presti fermdur 1773, 14 ára gamall.

Árið 1771 strádéll allt fé á Tjørnum hjá móður minni, og á øllum svokølludum Hólma bæum, er liggja miðt í Markarfljóti. Árið eptir voru mér gefin austur í Álptaveri í Skaptafells Sýslu, af kunníngja móður minnar, 2 lømb, sem eg komst með heim að Tjørnum, en fordaðist bæði á ferðinni og þegar heim kom, að láta þau koma í nokkurt hús, þar

býr á eignarjørð sinni Hvalsnesi. Þeirra dóttir og einbyrni Oløf, sem gipt er Síra Daníel Jónssyni á Kviabekk. Guðrún ýngri giptist Magnúsi Bjarnasyni á Efriholtum undir Eyafjøllum. Þeirra børn sem lifa: Bjarni giptur dóttur hans Ingigérði ýngri, Guðrún ógipt; Sighvatur giptur Kristínu Eiríksdóttir búa á Moldnúp, og Helga gipt Stepháni Pálssyni bónda á Efriholtum undir Eyafjøllum.

sem sýkíngar féhafdi inni verid. Sama ár um haustid kom út þad Kon-únesbod, ad farga skyldi øllu fé í Sýslunni, framfylgdi Sýslumadur Jón Jónsson á Hvoli þeirri skikk-un, og þegar hann í þeim erindum var á ferd um Sýslu sína, og hafdi heyrt þá fyrirætlun mína, ad láta þessi lømb lifa um veturinn, fann hann mig eins og adra, og bannadi mér þetta streingilega, en þó fór svo, ad hann af gódvild sinni leifdi mér þad, en lagdi ríkt á vid mig um þad, hvørnig eg skyldi medhøndla þau, og hét mér straffi, ef útaf bryti. 1773 var eg svo heppinn ad eg einn átti kindur í Rángárvalla Sýslu, því utaf þessum 2ur lømbum, lifn-adi toluvert fé, sem mørgum kom ad gódu gagni. 1774 var módur minni byggt út af jørdunni, þá eig-andi hennar ad henni fór; en þeg-ar hún var jardnædislaus ordin, tókum vid þad rád med okkur, ad byggja okkur íverukofa í Sitjar mýr-

ar landi, á hól nokkrum, sem kénd-
ur var vid mýrina, og kalladur
„Sokkhóll", hér dvøldum vid 2 ár.

1776 fór eg ad rádum Sýslu-
manns Jóns, til fedganna Þor-
steins Snjólfssonar, og Snjólfs
sonar hans, í Steinmódarbæ, hjá
hvørjum eg dvaldi 15 ár í vist, 13
ár fékk eg kaup hjá þeim, eins og
þá var venja til, 2 rbd. Cron. um
árid; réri eg fyrstu árin þar eystra,
en 1781 þá eg var 22 ára, fekk eg
fyrst ad fara til sjóródra sudur ad
Kyrkjuvogi í Hofnum, hvar eg
réri 9 haust- og vetrar-vertídir,
þángad til eg 1790 fór frá áminnst-
um fedgum.

1787 kynntist eg fyrst vid konu
mína Oddbjorgu Snorradóttur,
Gissurssonar á Narfakoti, sem þad
ár var rádskona hjá Logréttumanni
Þorkéli Jónssyni á Kyrkjuvogi;
smídadi eg hjá honum, þad sem
smída þurfti, skip og annad, og æfd-

ist í því; formadur var eg hér nokkur ár, og heppnadist mér sæmilega.

1789 vard med gódra manna rádum og fylgi (á medal hvorra eg tel helst Lögréttumann Hákon Vilhjálmsson og Kaupmann Chr. Jacobæus) rádahags leitun minni framgeingt, vid konu mína Oddbjorgu, sem þetta ár fór aptur til foreldra sinna, þó eg í fyrstu, og leingi, feingi afsvar hjá foreldrunum; fór eg þá árid eptir, ad rádum og vilja Kaupmannsins í þjónustu hans, og fékk þar ad giptast árid 1792 þ. 5 Aug.

Í þjónustu og braudi Kaupmannsins vorum vid þángad til um vorid 1795 ad hann lédi mér til ábúdar Eydi-hjáleiguna Hoskuldarkot, sem lá undir Kóngs jordina Ytri Njardvik, hvorja Kaupmadur Jacobæus heldt, og treysti hann mér, til ad byggja hana upp, þó hann vissi af efnunum litlum til þess. Sama vetur lét eg byggja stofu mína, og

tók til láns hjá húsbónda mínum, farvid í skip, og alla útreidslu til neta á þad, var þad fyrsta skipid er eg einsamall smídadi ad stofni, (en í allt smídadi eg sídan 21 stærri og smærri.) Um veturinn fékkst á þettad skip mitt 3 hundr. til hlutar, og húsbóndi minn (hjá hvørjum eg var formadur) gaf mér þaradauki hlut minn sem var 5 hundr. Fødurarfi konu minnar tók eg á móti um sama leitid, uppá 70 rbd., þá átti eg líka enn 13 ára kaup mitt hjá þeim fedgum Þorsteini og Snjólfi 26 rdl. Cron: Þetta var þá stofninn eda fóturinn undir búskap okkar, sem vid byrjudum ádurnefnt ár ad Hoskuldarkoti. Hér hefir Gud blessad okkar efni, sem á má sjá, allt til þessa dags, og gefid okkur 5 børn sem lifa: Ønnu, Jón, Ingigérdi eldri, Pétur og Ingigérdi yngri *). Af

*) 1. Anna fædd 1789 þ. 25ta Nóv. ad Narfakoti ólst upp hjá bóndanum Vilhjálmi Hákonarsyni og Ingigérdi Tómasdóttur á Rotvogi, og sídan

# uppheldis börnum sem nokkur hafa hjá okkur verid, hefi eg komid, 4um

syni þeirra Lögréttumanni Hákoni Vilhjálmssyni ad Kirkjuvogi hvörjum hún giptist árid 1808; áttu þau saman þessi börn sem lifa:

Vilhjálm Christen, giptist Þórunni Brynjúlfsdóttur frá Utskálum.

Gudna, gipt. Herdýsi Steingrímsdóttir frá Svalbarda.

Oddbjörgu, gipt. Stepháni Gunnarssyni bónda á Brekku í Biskupstúngum.

Önnu, gipt. Eiólfi Arnasyni bónda á Gérdakoti vid Hvalsnes.

Tómas, ógiptan á Hvalsnesi; 1 deydi úngbarn.

Þennan merkismann misti hún 1821; og giptist í ødru sinni 1822 Haldóri Gunnarssyni frá Hvammi, sem vard Hreppstjóri í Høfnum.

Þeirra børn: Hákon — vard brádkvaddur 9da Dec. 1841 — Gunnar, Gudridur, Jón, Haldór; 1 deydi úngbarn.

Hreppstjóri Haldór deydi 1830.

Í þridja sinni giptist Anna ekkjumanni Katli Jónssyni frá Svalbarda, sem um tíma var og Hreppstjóri í Høfnum og heitir Ingigérdur dóttur þeirra. Hefur Anna búid med øllum þessum mønnum sínum á Kirkjuvogi, allt þángad til synir hennar eldstu fóru þar ad búa á næstl. vori, bygdi þá Kétill upp bæ á Kotvogi, og búa þau nú þar.

2. Ingigérdur eldri fædd ad Høskuldarkoti 1794 23ja Maii, ólst upp í Móum á Kjalarnesi hjá Løgréttumanni Lopti Þorkéllssyni, þángad til hún 10 ára

umkomulausum piltnm, til siglingar, hvörjir ed lærdu erlendis handverk,

fór til foreldra sinna, giptist 1820 Stúdent og Faktor Gudmundi Péturssyni á Hafnarfirdi; búa þau nú á Svidholti. Þeirra börn sem lifa: Oddbjörg, Sigrídur, Gudrún, Kristín, Ingibjörg, Sophía; Anna deydi 20 ára, 1841 4da Dec., og adra dóttir med sama nafni mistu þau únga.

3. Jón fæddur ad Höskuldarkoti 1795 13da Dec., ólst upp hjá foreldrum sínum þángad til honum komid var til Cancellíráds sál. Vigfúsar Þórarinssonar á Hlýdarenda til ad læra ad skrifa og reikna, kom til foreldra sinna aptur 1809, en 1815 kom fadir hans honum til siglingar, til ad læra Skipstjórnar íþrótt, tók hann 2 árum sídan lærdómspróf sitt (Examen) í Stýrimannskonstinni med besta vitnisburdi, kom inn aptur til landsins um sumarid og færdi Fiskiduggu fødur síns í næstu 2 ár. Giptist 1819 Kristínu dóttir Jóns Snorrasonar, módurbródur síns, og Katrínar Einarsdóttur á Ytri Njardvík. Þeirra börn: Snorri, lærir Skólalærdóm á Bessastødum, og Oddbjörg.

4. Pétur fæddur 1800 5ta Sept., ólst upp í foreldra húsum, og lærdi þar og hjá Prestinum Síra Gudmundi Bødvarssyni ad skrifa og reikna, en hjá Dannibrogsmanni Jóni Daníelssyni á Vogum, nádi hann fyrsta undirbúníngi í Skipstjórnar kunnáttunni, en veturinn 1817, kom fadir hans honum til Stýrimanns Jóns Vídalíns í Reykjavík, til ad ná enn frekari framförum og fullkomnun. Hann giptist 1827 Arnleifi Pétursdottir sem þá var þjónustustúlka hjá foreldrum hans, og eptirlét þá fadir hans honum ½

en hinum til þeirrar menníngar, sem hjá mér hefir verid kostur *).

jördina til ábúdar á móti sér. Færdi hann þá Skút-
una fyrir födur sinn 3 árin næstu. Þeirra börn sem
lifa: Kristín, Sigrídur, Jón, Anna, Kristbjörg;
5 eru dáin.

5. Ingigérdur ýngri fædd 1806, ólst upp hjá
foreldrum sínum þar til hún giptist 1836 frænda sínum
Bjarna Magnússyni sem þá var ekkjumadur og bú-
andi undir Eyafjöllum, fóru þau ad búa á Ytri Njard-
vík, og hafa átt 3 börn, af hvörjum 1 lifir ad nafni
Bjarni.

*) Þeir 4 piltar sem um er gétid ad hann til sigl-
íngar hafi komid eru þessir:

1. Kristinn Sigurdsson sem hann sjálfur ségist hafa tekid í Guds þakka skyni, kom til hans 5 ára, sïgldi sama ár sem hann var fermdur til Kaupmanna-hafnar 1800, hvar hann lærdi Járnsmids handverk, og deydi á Fridriks spitala í bólusótt 1817.

2. Gudmund Oddleifsson ístödulítinn tók hann 14 ára af sveit, lærdi hjá honum ad skrifa og reikna, þángad til ad hann tvítugur sigldi frá honum og lærdi Beikirs handverk, en deydi sama ár sem sá fyrrtaldi.

3. Sigurdur Oddleifsson bródir hans var fyrst hjá honum 6 ár í sveitarskyni, en þar nærst medgjafar-laust, lærdi ad skrifa og reikna, og sigldi 18 ára til Kaupmannah. hvar hann lærdi Beikirs handverk, og var um hríd á Vestindíafari sem Beikir.

4. Fridrik Sigurdsson (Bergmann) var hjá honum 2 ár á medgjöf, en þar eptir 3 ár í gustukaskyni, þángad til hann lét hann 1817 sigla frá sér 17 ára

Árid 1815 keipti Eg Ytri-Njardvík ásamt med mági mínum og nábúa Jóni Snorrasyni fyrir 2351rbd. Courant.

1810 þá fá skip voru í förum milli Keblavíkur og Inn-nesja kaupstada, sem flutt gjætu eda rúmad þad er nokkru numdi, keipti eg áttrædíngsskip austan úr Þorlákshöfn, og lét þad sama talsverdt stækka, og gjöra ad vænu farmaskipi til milliferda. 1814 tók eg fyrir mig ad láta byggja Jakt, og fékk þartil innlend-

gamlann til vinar síns í Kaupmannah. hjá hvörjum hann lærdi járnsmídi.

Auk þessara munadarlausu pilta, sem sá framlidni uppfóstradi og til menníngar kom, eru enn þessi eptirfylgjandi börn: Sigurdur Jónsson sem til hans kom 5 ára gamall árid 1824, og mánnadist svo, ad hann var talinn med líklegri mönnum á hans aldri. Hann drukknadi af bát, rúmt tvítugur 1839.

Ingileif Jónsdóttur Bachmann fóstradi hann upp frá 4da til 19da aldurs árs. Gudrúnu Gudmundsdóttur dótturdóttur sína tók hann á 1ta aldurs ári. Fleiri börn mætti upptelja ef þörf sýndist, sem öll hafa notid af hans framsýni og gódmennsku sómasamlegs uppheldis.

an Timburmann Gísla Pétursson á Oseyri, hvor hjá mér var kabla úr 3ur vetrum, til ad framhalda med mér, þessú mínu af mørgum illa umspáda fyrirtæki, já svo illa: ad jafnvel vinir mínir, rédu mér eptir fyrsta vetrarverkid, ad yfirgéfa stofninn, og rífa þad nidur sem þá var búid ad smída, því um þad leitid fellu bág ár uppá; en þar eg ádur hafdi reynt hvad fatækt var, og vissi hvørsu Gud hafdi eblt efni mín sídan, hugdi eg ad framhalda því byrjada verki eptir megni, svo árid 1817 vard þessi Jakt mín fullgjør og sjófær, 8 døgum eptir ad sonur minn Jón Nordfjord kom frá Kaupmannahøfn sem þá tók til ad stýra henni til fiskiveida; þeir sem rétt muna til tímans, þau 3 árin sem Jaktar smídid stód-yfir, gætu ímyndad sér, ad eg, þegar því var lokid, hefdi í stór skuldum verid, en af því Marsvína-feingurinn 1815, 1817, studdi og eblidi sjáar útveg

minn sem heppnadist mér þá, eins og optar vel, var eg jafn lítid skuldugur eptir sem ádur. Ár 1805 var eg settur Forlíkunar madur í Rosmhvalaness hrepp, hvurju embætti eg gégndi 16 ár, beiddist sídan eptir lausn og fékk. Í 30 ár hefi eg af yfirvøldunum verid skikkadur Tilsjónar madur, vid Neta brúkun í Kébla- og Njard-víkum. Í búskap mínum hefi eg tvisvar ordid fyrir húsbruna; í fyrra sinni brann smidja mín full af ýmislegu; vorafli minn fór þar med, ásamt netum mínum og m. fl. í hitt skiptid brann eldhús med allri skinnavøru minni, og ødru fl. sem þar inni var geimt.

---

Þetta framanskrifada er samhljóda, vid þess framlidna Æfisøgubrot, sem hann sjálfur samid hafdi og eptir sig látid til 63ja aldurs árs, nema hvad sumstadar litid er vidaukid eda úrfeldt, en í næstl. 20 ár

til daudadags hafdi hann ekki fram-
haldid æfisøgu sinni.

Á seinni árum hans, þegar fjør og kraptar tóku ad dvína, hnignadi ad vonum manndóms fyrirtækjum hans; samt sem ádur, einsog hvervetna, var audsjed, ad hann vildi vera forsprakki og hvatamadur, til alls þess sem hann meinti til almenníngs heilla horfa; hvønær sem hann þá kéndi vanmættis síns eda kraptaleisis til ad koma einhvørju nytsømu í verk, lét hann ekki sitt til vanta, med rádum og fylgi, ad hvetja adra til þess, sem þess umkomnir þóktu, enda var ekki svo rádist í neitt, sem nokkru þókti varda, ad hans atkvædis væri ekki leitad, eda meiníng hans heyrd þarum ádur; Enn var rausn hans og høfdíngsskapur ad því skapi, því þegar uppá einhvørju var stúngid, sem midadi til ad ebla almenníngs gagn, eda til lidsinnis fátæklíngum, og þeim sem hreppt høfdu tjón og skada, var þad ætíd víst, ad øll útlát og hjálp

var ríflégust frá hans hendi. — Til sönnunar þessu er til dæmis þett-ad tvennt:

Þegar fyrir Eyjafjalla sveit, uppáféllu þau miklu bágindi á bjarg-rædi og sképnum, sem orsökudust af eldgosinu árid 1821 vard hann frum-kvödull til, ad því naudstadda fólki væri lidsinnt, og gaf þá fyrstur manna til þessarar sveitar 10 Tunnur Rúgs, medframm í þakklætis skyni fyrir þad, ad hann sjálfur þurfandi og uppá adra kominn, hafdi í þessari sveit dval-id, med módur sinni, ádur enn hann hafdi feingid mannskap til ad vinna fyrir sér og henni.

Annad var þad: ad þegar nokkr-ir embættismenn í Reykjavík höfdu tekid sig saman, til ad setja á stofn félag þad, sem kallast „Suduramts-ins Húss og Bústjórnar-félag" og hann af bænarskrá sem honum eins og ödrum var tilsend, var sannfærd-ur um augnamid og nytsemi þess félags, lét hann sér annt um, ad fá

sem flesta áskrifendur, til ad styrkja þad og efla, gaf sjálfur 25rbd. en útvegadi í kríngum sig 120rbd.

Ad telja upp allar hans í ádurnefndu augnamidi útilátnu gjafir, væri oflángt og óþarfi, því flestum sem þektu hann, var kunnugt um rausn hans og høfdíngsskap, en hinum getur þad nægt, sem búid er um hann ad segja, til þess ad sjá hvør madur hann var, ad dugnadi, ráddeild, framkvæmd, góðvild og ærusemi, og til merkis hér uppá, sæmdi Konúngleg nád hann, med Dannebrogs-ordunnar silfur krossi árid 1833. Eitt var enn dæmi uppá hug hans, framkvæmd og dug, ad hann, þó hann alltaf findi sér ódum aptur fara ad krøptum, fyrir elliburda sakir, fór ad hugsa um, hvørnin Skip þad sem honum hafdi mestan abla í land fært, og ætíd heppnast honum, skyldi ekki eptir sinn dag verda ad aungvu. en þad var Jakt hans, sem þá var ordin svo mjøg fornfá-

leg og lítt sjófær; ásetti hann sér því, ad sjá ekki í þann kostnad, sem útheimtist til ad gjöra hana vel sjófæra aptur, í von um, ad einhvörjir sínir, kynnu af henni hljóta gott; voru þá reiknadir 500 rbd. sem geingu til adgjördarinnar, og var ó ad sjá, ad hann á endanum hefdi ánægju af ad verkid tókst, þótt miklu hefdi tilkostad. Var þad svo med allt sem hann tók sér fyrir, ad hann vildi framkvæma þad med fylgi og krapti. Á 3ur seinustu árunum fór honum þó mest aptur, ad heilsu og burdum, var þó ætíd á felli, þegar ekki var veikur, hyrdti hann þá um og leit eptir sínu, og á hvörjum vetri saltadi hann allann þann fisk, sem af útveg hans ad landi barst, þó hann ad líkindum, væri ekki fær um þad; aldrei sást hann ydjulaus, ad hann hefdi ei eitthvad fyrir stafni. Hann elskadi jafnan og vyrdti Presta sína, og Kyrkjuna sókti hann til sídustu laga, gaf ekki einúngis henni, heldur

ødrum fátækum Kyrkjum stórgjafir, var alvørugéfinn, reglusamur og sidavandur, hóglátur og hvervetna fátaladur, en vid hvørn sem hann annars tali tók, var hann bædi skémtilegur og rædinn, merktist þá fljótt, ad hann var hinn greindasti í tali, og heima í flestu, sem til mátti ætlast, af bóndamanni; átti reynsla hans og støk eptirtekt, ekki allítinn þátt í ad géfa honum þekkíngu á mørgum hlutum, sem honum og ødrum ad haldi komu, því eins og hann var ætíd rádagódur, var hann líka rádhollur hvørjum sem til hans leitudu, hinn tryggasti vinum sínum, og ørruggasti hjálparmadur þeirra.

Sá veikleiki, sem helst heimsókti hann á seinustu árunum, var høfudsvimi og heyrnardeyfa, svo ókunnugir áttu bágt med ad tala vid hann.

Þridjudaginn þ. 23ja Nóv. fór hann útí hús sitt, til ad sækja eitthvad sem til heimilisins þurfti, en kona hans, hvørri kunnugt var um

veikindi hans, lét þó hafa gát á honum, en þegar hann aptur var til dyra kominn, hafdi hann af svimanum á gólfid útaf fallid, gat þá sonur hans Pétur komid honum til rúms, úr hvørju sídan ad varla mátti segja ad hann hefdi á fætur stígid, tók honum svo eptir þetta ad þýngja, med megnu máttleysi, ad hann gat ekki sig í rúminu hrært, þoldi ekki heldur ad láta snerta sig, þángad til Gud hvíldi hann, Sunnudaginn þ. 28da Nóv. saddann lífdaga, og lúinn af laungu erfidi og þreytu, á 83ja aldurs, en hjónabands 50ta ári.

---

Jardarför hans framfór í fjølda manna vid-urvist þann 9da Dec. Voru 5 rædur haldnar yf-ir líkinu, ádur enn þad var úthafid úr heimahús-um, af ýmsum, bædi ad bón hlutadegenda og ept-ir ósk þeirra sjálfra í vyrdíngaiskyni vid þann framlidna. Vid kirkjuna héldt Sóknarpresturinn Herra **Pétur Jónsson** einn rædu, og las upp, einsog sidur er til, **Æfisøgu** hans. Þeim til á-nægju, sem ega vilja, eda lesa, eru allar þessar rædur prentadar hér aptan vid, ásamt med þeim **Erfiljódum**, sem af ýmsum orkt hafa verid.

Undireins var jardsúngin dótturdóttir hans **Anna Gudmundsdóttir** (sem andadist í **Rébla-vík** þann 4da Dec. s. á. 20 ára) og sama daginn vard brádkvaddur dóttur sonur hans **Hákon Haldórs-son** 18 ára, á veiginum skamt fyrir innan **Kirk-juvog**, þá hann ætladi ad verda vid jardarfør þessara ættmanna sinna; bædi urdu þau harm-daud, og sárt søknud af sínum.

# Húskvedja

## Dannebrogsmanns Jóns Sighvatssonar,

i December 1841.

## Bæn.

Fadir vor á himnum! snú þínu náduga augliti til vor, þinna barna, sem hér erum nálægir í þínum ótta med heilögum hugleidíngum og hrærdum tilfinníngum útaf þeim lífs forlögum, sem eptir þínu alvitra rádi urdu nú ad koma hér nidur á þessum stad; æ! veit oss örugt og upplýst hjarta med þínum krapti til ad taka þessu, sem ödrum þínum födurlegu velgjörníngum; vér bidjum þig, ad blessa oss þessar alvarlegu hugleidíngar sem tilgángur þessarar samkomu bendir til. Lát oss nú sem endranær hugsa og tala þad eina, sem þér, mikli Gud! sæmir og þóknast, sem megi stadfesta þín börn í trúnni á þér, í þínum sannleika, þeim sannleika: ad allt gjörir þú vel, bædi þá þú kallar oss til þessa lífs, og eins nær þú kallar oss frá því aptur til þess lífs sem ævarandi er. Lát þá, Drottinn! finna kröptuga huggun og lækníng í þínum ordum, sem þú hefir med ástvinar missirnum hrýggt og snortid djúpu sári. Æ, þú sem grædir þad sem þú særir — lækna þú þau sárthármandi særdu hjörtu og lát oss alla lánga til, vel undirbúna, ad komast þángad, hvar vorir burtsofnudu ástvinir eru, þeir ed elskudu Gud og óttudust, sem í Drottni dóu, Amen.

---

Af því naudsyn ber til, eptir skyldunnar bodi, er eg hér staddur ad þessu sinni med hrærdri hjart-

ans tilfinníngu útaf því sára tilfelli sem rammað hefir þetta hús, já, þessa bygð. En svo sem þar er tilhlýðileg skylda til, þá er eg fús til þess, fyrst Guð vildi svo skyldi ské, eptir veikum kröptum mínum, stólandi einúngis uppá Guðs krapt. Hér er þó margt og mikið um að tala, ef tími væri til, og Guði sé lof! hér má vel umræða, án oflofs, en það er framyfir mitt megn og hæfi, samt ekki framyfir minn vilja, þá hefi eg tilfinníngu þegið. Þeir einir kunna að halda mér til góða, þó í veikleika verði, sem sjálfir finna hvað sig ávantar fullkomnan í hvörju efni. Eg óttumst því ekki heldur, að þessu leiti, þó enir heldri og verdugri séu tilkvaddir, svo sem hluttakandi vottar þessarar sómasamlegu útfarar, einkum þegar sá á eptir tilkalli að flytja orðið eptir mig, yfir þessum æruverða sæla öldúng, og veita honum einustu þjénustu, sem veit að bæta það upp sem mig abresttur. Eg vil að eins reyna til að tala fáein (sönn) uppvakníngar og huggunar orð í Guði;— því héri er: Guðs tilhlutan og vilji.

Gott rykti eða mannorð er betra enn kostulegt salve og daudadagurinn heldri enn fædingardagurinn, Préd. b. 7.

Hjartkjæru, háttvyrdtu! hátídlegt tímans afridi leidir oss mannesksjurnar inní heim þenna til lífsins, en alvarlegt er það tilfelli og sem leidir oss útúr honum med daudanum, sem gjörir adskilnað

sálar og líkama. Það er vissulega enn ágjætara og sællra, að enda vel hvørn hlut, enn að byrja, þá er og sællra að deya með sóma, með verðskuldudum saknaði enna eptirlifendu, heldurenn að fæðast jafnvel með allri viðhøfn og fagnaði samtíða vina og nágranna. Hvørutveggja atriðið lofar að sønnu sinn Meistara, því hann er ætíð allstaðar í øllum sínum verkum, elsku- og tilbeiðslu-verður. Æ, hvar að lúta þessar mínar hugleiðíngar núna? Hvað mun hafa kallað mannfjølda þenna saman — alla með svo alvarlegu og døpru bragði og niðurslegna? Eg þekki hér staddа nánustu vandamenn, marga ástvini og kunníngja þessa húss, sem mér þykir líka sem andvarpa og stynja sárann og bera sig illa fyrir elli — hrumleika sakir, einsog máttarstólpi þess væri fallinn til jarðar.

Mér hnykkir við, og eg verð tekinn af einhvørri sorglegri ímyndan eða sárri tilfinníngu. Mitt auga fær ei að líta lífs uppistandandi hússins kjæra føður og fórsvar, þann sem var sómi og stytta allra sinna nær og fjær. Því hvørju sem gégna skyldi, kvað mikið að þessa sæla merkismanns aðgjørðum og tilløgum með ráði og dáð, allt svo lengi segja mátti, að hann fékk hreift sína túngu og sinn fót. Eg finn þá vel og sje, að hérna er full orsøk til, að sorg merkist innra og ytra á mørgum. Það er hollt og gott fyrir menn, einsog

annad, frá þeim alvitra algóda Födur, ad géta létt á hjarta sínu, þegar eitthvad liggur þúngt á því, med því ad úthella vidkvæmum tárum, sem ad vísu bera med sér tilfinníngu og veikleika vorrar náttúru, já, þad er góð uppvakníng ad gánga í sorgarhúsid, og betra er ad syrgja í hófi, maklega, þá svo ber undir, heldurenn ad lifa ávallt eda optast vid leik og kjæti heimsins, því hitt fær lagad og betrad hjartad. Æ, einnin eg skil og finn berlega nú, hvad skéd er á þessum stad, eg finn til sárs saknadar, svo sem eg hefdi mist ástrikann födur, trúfastann velgjörara, rádhollann, hreinlyndann ástvin og besta medbródur, og þad eptir ad eins rúmra 4ra ára lofsverda, kjæra kynníngu. En hvad er eg ad telja mig svo fljótt? hví skyldi eg gleyma þeim nánustu og kjærustu, sem nú í seinasta sinni med þúngum skyldugum trega-tárum mega líta lidinn, náblæjum vafdann, lagdann í þessa dökkmáludu líkkistu, sinn hjartanlegasta dygdarika ektamaka, födur, bródur, afa og ástvin. Híngad átti eg leid, heidursverda harmandi Ekkja! til þess, ef ské mætti, ad sefa ydar sorg, med því ad sýna og sanna, ad Gud kalli sína ástvini hédan á hagkvæmustu tíd, fyrir þá og þeirra, hvad opt á eptir betur leidist í ljós. Æ, hvörr vill lá ydur, ad þér tregid sárt þenna valinkunna, ydar trúfasta kjæra maka, sem svo alúdlega, einsog stakur dánumadur vann ydar hjarta, var ydur svo ljúfur og uppbyggilegur, og

eblandi það sem til sameginlegra heilla horfði, fyrir líf og sál, svo reglubundinn með gott siðferði, svo hvetjandi, ótregur til góðverka, Guð elskandi og ráðhollur. Af því hann varði vel þeim góðu gáfum, er Guð lénaði, urðu þær honum blessaðar og ávaxtarsamar. Gott mannorð og ástsæld varð hjá honum samfara auðsæld og góðum efnum, hvað eð gétur stadist hvørt með øðru, og þá er það mikil blessan Drottins. Hér við bættist barnalán, sem betra er kallað enn fé, en best hvað með øðru; hans ráð og fyrirtæki heppnuðust svo vel, því hann gékk fram fyrir Guði, í hans ótta, með bæn til Guðs; hann hafði þau réttu hyggindi til að bera, nefnilega: þau sem í hag koma, og þá er øll von að vel farist á með samvøldum ástvinum. Það, er ydur til huggunar, sem Guðs boðum samkvæmt, elskuðuð hvørt annað svo heitt, þið hættið ei að elskast, þó um stund fjarlægist að líkamans sjónum. Ykkar ektabundna, lánga og lukkulega sambúð í meðlæti og mótlæti var þóknanleg fyrir Drottni — lánga — má segja, hjá margra annara, þar sem þið voruð saman í hjónabandi undir 50 ár — og má þá nærri géta — einsog velvegnan varð á, að það sætasta af þessa lífs gjæðum hafi verið smakkað. Hve ómrædileg fagnaðar og farsældar umbun í eilífum kjærleika Drottins mun ykkur báðum veitast, þegar þér fáið að koma þángað sem hann er undangenginn, og það innan litils

tíma, því á dag yðar hérvistar lífs, er að líkindum mikið farið að líða, því þó þér nú náttúrlega séuð sorgbitin, megið þér gledjast í Gudi verduglega við þá von: að bráðum líði til eilífra kjærra samfunda, hvar þér fáið óendanlega að njóta hans sælu samvista, án þess framar að skilja að, hvar þið fáið ásamt að skoda Gud með ødrum Guds útvøldum, hvar fylling áuægju, fridar og farsældar mun ríkuglega bæta þann sára skilnað. Heimvonin verdur yður og øllum, sem hugsa verduglega til eilífdarinnar, því kjærari, sem þetta er betur innrætt, já, þakka megið þér Gudi fyrir þá gódu gjøf, sem hann gaf yður svo lengi, í yðar ní burtsofnaða ástvini, því hann lét ykkar hamíngjusælu sambúð vara til ens ýtrasta, eg meina, þángaðtil lífið var honum náttúrlega orðið byrði, þótt Gud svo hafi nú, þá lífsins vetur lagðist á, honum og yður fyrir bestu tekið hann til sinna himnesku fødurhúsa með ødrum ástkjærum, frá jarðríkis mædusamri útivist, eptir vel og trúlega aflokið dagsverk, þegar hann hafdi svo lengi blessað hann á jørdunni andléga og líkamlega, og gésið honum með mørgum góðum hæfilegleikum, að verda margra hjálpara, frædara, fridarstillir og fyrirmynd hans egin barna, barna-barna og vandalausra ýngri og eldri. Og þið, vors hásæla ástvinar børn! megið gráta að verdúng, gódann gudhræddann fødur — hvørsvegna Gud minnist ykkar æ og að eilífu til

ens beſta, þar ſem þid ſjáid og metid hvad Gud hefur ykkur í veitt med þeſsum ykkar hjartkjæra nú harmdauda ſødur, hvern hann gaf ykkur lengi til gledi og gjæfu, en tók til ſín aptur á hagkvæmaſta tíma, þá þid øll til ráds og reynſlu komin í laglegri ſtødu, kunnud ad meta þennan ſem annann velgjørníng af Guds gódu hendi, ſvo ad þér þekktud hvørn þid áttud, og miſtud um tíma aptur, eptir lukkuſællt dagsverk, frá ykkar jardneſku ſambúd. Þeſs minnisſtædari má ykkur velørtudum og ſkynſømum vera ſødurmiſsirinn, ykkur — ſem ſverjiſt í ætt foreldranna. — Grátid því, børn! ſvo gjørdi Frelſarinn fordum vid grøf vinar ſíns Lazarusar — ad eins grátid hóflega og lærid líka í þeſsu efni ad géfa Gudi dýrdina, ſem honum ávallt ber, og þad ſkédur med því ad líkjaſt ſem beſt gétid þeim dygdaríka ſæla Fødur, til ad verda hans makleg eilíflega á lifendra landi. Æ, þad var vel! þad var ſvo víſt, ſem vonlegt var, ad þid elſkudud hann øll hjartanlega, einsog hann viſsulega elſkadi ykkur heitt og bar ykkur í ſínu hjarta — já, hans ſæli andi elſkar ykkur nú ei ſídur, ſín áſtkjæru, og bidur fyrir ykkur hjá himnanna Gudi, um bleſsan, ſem hann naut um dagana. Eins þid barnabørn og uppfóſturs børn vors ſigurſæla áſtvinar, minniſt ykkar ſødurs og velgjørara, alla ykkar æfi, med þakklátu, frómu hjarta og gudræknilegu líferni, til hvørs hann med allri alúd lagdi

grundvøllinn hjá ykkur, svo leingi hans varir gátu bærst — ykkur var hann og lýsandi fyrirmynd á Guðs óttans sæla vegi. Lofið því Guð, sem gaf hann, og lofaði ykkur að njóta hans leingi — já, leingur enn líkindi voru til, að hann, søkum síns háa aldurs stadið gjæti. — Yfir høfuð øllum yður, þér hjú og heimilis fólk! hve minnisstædur má hann vera — þessi hússins valinkunni faðir.

Hve kjær og vekjandi hans sæla minníng mørgum fjær og nær, sem áttu í honum trúfastann vin og naudhjálpara! hér má svo að orði kveða um þenna fræga framliðna Öldúng: „Hann fór hnignandi og andaðist í einnri rólegri elli, þá hann var hníginn að aldri, og saddur af lífdøgum, og safnaðist til síns fólks". A. hans hái aldur, sem voru hartnær 83 ár — hvørjum færstir ná — gaf til kynna, að honum varð að fara mikið hnignandi, þótt hann vonum fremur til leingstu laga væri á ferli — því hann var yðinn, árvakur og framkvæmdarsamur meðan dagur var, en þegar kvølda tók, og ellinnar annmarkar tóku að gjøra honum ørdugra fyrir, þá bar hann sinn elli-lasleika, eins og sannkølluð Guðs hetja. — Hann var svo einkar gudrækinn, þar fyrir hefur hann og sælúfulla umbun fengið hjá þeim sem launar trúa þjónustu — hann vissi og að møgla ekki við forsjónina, þó eitthvað á móti blési, heldur þakka Guði

ávallt sem blessadi hans líf, og miskunadi þá hann ákalladi á neydar tíma; hann fann og saunarlega Guds hjálpráð, í Kristó nærst, er neydin adþreingdi stærst. — Æ! rólega leid hans líf ámedal ástfólginna vandamanna, sem víst gjørdu sitt til ad gjøra honum lífid ljúft, og létta undir hans þjáníng og hjúkra honum svo vel sem vard, seinast í hans þúnga dauda strídi, sem víst mun í minni mørgum hans velþeinkjandi kjæru, sem eins og sáu uppá, þegar hans ønd leystist frá líkamans erviðu bøndum og leid — nærstá fegin fengnu frelsi — upp til himins í félag enna fullsælu Guds barna — og Gud hefur látid sína Engla bera hann í Abrahams skaut med sigrihrósandi lofsaung — því himnaríki fagnar vid tølu þeirra blessudu af Drottni, sem í Drottni hafa kvadt heiminn, eptir sómasamlega endad líf. Pad mátti kallast svo, ad hann væri úr heiminum, ádur hann þó algjørt vid hann skildi. Hans hugur og hjarta var á himnum, medan sá himnesski andi hlaut ad búa í þeirri nærstum niburhrundu jardnesku tjaldbúd; má svo fullyrda ad hann hafi lángad til: ad fara hédan, og vera med Kristó — því líkamans kraptar og heilsa vóru horfin. Æ! hans góda hjarta og gudrækilega líferni, hans reglubundna góda sidferdi! eins og bæjar bragur og húsðstjórn hans, sem hans eptirþreyjandi hjartkæra Ekkja átti ekki allítinn þátt í, svosem einhvør en rádsvinnasta og duglegasta Húsfreija, — en gud-

rækni hans, dygdaríki — sidprýdi og ráðlag ætti oss í minni lođa øllum til eptirbreytnis. Hve rækilega vildi hann halda uppi kristilegum sidum og rækja kyrkju sína til þess ýtrasta, hvar hann og á nærstlidnu sumri fékk ad njóta sér til trúarstyrkíngar Drottins sáluhjálplegu kvøldmáltídar — en — trúrækni, gudrækni og kristilegt edallyndi var vors framlidna Ástvinar einkenni.

Elskan er sterkari enn daudinn, því verdur ei elska þeirra sem í raun og sannleika elskudust hér, upphafin eda á enda hinumegin — heldur varir eilíflega. O! hvad eg vildi nú hafa gétad nokkud huggad ydar hrelda hjarta, harmandi Ekkja! sem nú finnid til þess dýpsta sárs, en Drottinn gjørdi þad, og læknar þad aptur med traustinu á Gudi. Géfi Gud, ad eg hafi nú vel og verduglega talad ydur og øllum sárt harmandi til trúarstyrkíngar, — því þad var einkum eyrindi mitt híngad; samt sje eg ad þad sár ydar gétur ekki ordid ad fullu grædt fyrr enn sá sami algódi Fadir, sem frá ydur tók þenna vinsæla elskhuga ydar, unnir ykkur ad sjást aptur í eilífri sælu. En hví skyldud þér ekki finna til — hví skyldi ydur ekki missirinn svída til hjartans, þegar hálft ydar hjarta er brostid, og sá stafurinn brotinn er studdi ydur. Gud leidi ydur þá sjálfa og geimi undir sinni verndarhendi — þess óska eg af hjarta, undir skjóli hins Almáttuga er ydur óhætt. Æ! eg veit ad sú stundin sára er ydur

ekki úr minni liðin, þegar dauðinn gjörði skilnað ykkar á milli, að eg ei tali um hvað það hefur mátt fá á yðar hjarta, að horfa uppá hans dauða stríð — eg gét sett mér það lifandi fyrir sjónir, þó ekki bæri svo undir að eg væri þar við, sem eintómur sjónarvottur hefði mig raunar ekki lángað til þess, heldur, ef að eg þá hefði gétað verið túlkur Guðs sannleiks og huggunar orða, og viknandi hluttakari eins medkristins ástvinar og bróðurs sáru liðana. Æ og ætíð vil eg þessa vors ástsæla Öldúngs stóru verðugleika minnast með virðíng og elsku, já, blessa hans minníngu leynt og ljóst. Og þér þessa í Guði sæla valmennis virðtu børn og náúngar! látið hans minníngu, sem trúann varðhalds eingil leiðbeina yður um lífsins veg, til eilífrar sáluhjálpar fyrir trúna á Jesúm Krist, sem einnig hann hefur hólpinn gjört.

Minnist jafnan hans góðu mannkosta í hvørjum helst lífsins kríngumstæðum — það gjørir yður gott. Lofum og dýrkum allir samhuga Þann sem blessar vora ástvini lífs og liðna, sú dýrkun og tilbeiðsla mun ekki verða árángurslaus fyrir oss og vora niðja. Æ! þá er þó enn eptir að skila þeirri seinustu kveðju og blessun vors ógleimanlega ástvinar, áður hans friða farsæla lík hafið verður útúr þeim húsunum, hvar hann svó lengi í tímanum inni búið hafði með lukkusæld og

heidri. Hann þakkar ydur þá, sinni hjartkjæru tregandi ekkju fyrst og fremst í anda og sannleika fyrir ydar øruggu, alúdlegu hjástod og trúu samfylgd um þessa lífs leid til enda, fyrir ydar nákvæmu umønnun og elsku = atlot medan unnt var. Hans frelsadi, sæli Andi bidur óumrædilega ydur heilla og hjálprædis, ad þér mættud brádum koma þángad, hvar hans andi nú lifir, njótandi þeirrar óútmálanlegu sælu sem Guds børnum er med himnaríki heitin hjá Gudi Fødur. Ykkur, sín kjæru mannvænlegu børn, heimilisfólk, ættingja og vini kvedur ykkar nafntogadi sæli fadir, í anda forfedranna Abrahams, Isaks og Jakobs. Hann þakkar ykkur alla barnlega rækt og hlýdni og trúa þjónustu um dagana. Æ! hann vill vissulega minnast sinna til ens besta sem øndunum er leyft hjá andanna Fødur, med elskunnar innilegu ummælum, ad þid mættud lifa vel og leingi í landinu, svo sem þau børn, er Guds og náttúrunnar bodi hlýda, því nl. ad heidra og elska fødur og módur, svo njóta mættud líkrar Guds blessunar, og hann naut í lifanda lífi. Æ, hann felur ykkur og øllum gódum náúngum og vinum — sem marigr eru — hana módur ykkar elskulegu, nærst Gudi, í hennar ekkjustandi og aldurdómi. Hann ætlast til og vonar ad þid munid æ eptir barna skyldunni vid hana aldrada, einmana, veika. Þessi voru jafnan hans innra manns ord: Gud

veri ykkur, min kæru! nádugur og nálægur til alls góds. Í sama anda sendir hans andi sínum hjúum og nágrönnum sína føðurlegu skilnaðar kveðju, þakkandi þeim lánga og trúa þjónustu og auðsveipni, óskandi þeim öllum rólegra og sællra lífsstunda og góðs samastaðar, einkum sáluhjálplegrar endalyktar. Loksins öllum hans góðkunníngjum á eg að flytja hans kjærleiks kveðju og friðar ósk. Við hús og heimili skilur hann þá í friði — í Guðs friði og blessan, sem Guð blessaði hann með leingi í lífinu.

Guð blessi oss öllum þína minníng, sæli Guðs og manna vin! frið var þín fæðingar stund, lukkulegt þitt lífsskeið og farsælust þín burtför frá þessu lífi til ens eilífa.

Sýngjum þá, heiðraða Samkoma! í vors blessaða, andaða ástvinar orðastað:

Héðan í burtu með friði eg fer,
feginn og glaður í Guði,
huggað nú vel mitt hjartað er,
og horfinn allur kvíði,
svo sem Guð sjálfur fyrirhét mér,
hvíldar svefn minn er dauði.

Æ. B. S.

---

## Háttvyrdtu Tilheyrendur!

Með leyfi ydar, lángar mig ad tala eitt ord vid ydur, og seigja ydur frá því, sem fyrir mig bar, og eg í huganum hefi verid ad velta fyrir mér; hvørki er þad draumur, né med øllu marklaus hugarburdur. Eg þóktist vera úti staddur, sól var enn á lopti, og þó farin mikid ad lækka, mér vard litid í kríngum mig, og eg sá hvar tvø tré stódu, hávaxin og mikil; vyrdtist mér þau hefdu stadid þar leingi, því þau voru ordin svo føl ad sjá og bleik, voru limar þeirra eda greinir samvaxnar, svo þad sýndist, sem hvørt hefdi annad studt og leingi varid hvørt af ødru hret og storm; bædi voru þau farin ad bogna, edá þó heldur ad hallast nidurad jørdu, svo audsjed var, þau mundu einhvørntíma falla med rótum; ødru var þó hættara, því þad hugdi eg mundi ekki géta stadist lengur; mér rann til rifja, ef bædi feingju ekki ad standa jafnleingi, ef annad yrdi ad falla, og hitt yrdi svo hættara á eptir; eg gékk nær, og skodadi þessi tré betur, sá eg þá ad fríðar greinir, høfdu útaf þeim vaxid, sem gródursettar voru í kríngum þau og báru blómlega ávexti, sýndist hvør greinin adra styrkja, en allar styrkja þessi fornu tré, sem þær af voru komnar, og studdi sig eins og stofninn vid þær elskudu greinir, sem ófveikar voru þó til ad varna falli. Blød voru samt græn á

þessum trjám, og ávextir eins og alltaf væru að spretta, en frækorn og ávextirnir höfðu borist af þeim, í allar áttir, og fallið víða í góða jörð; uxu því mörg grös og jurtir umhverfis þau, hverjum sumum, eg sá, að þau veitt hefðu forsælu — sem í skjóli þeirra höfðu þróast og vaxið — en til sumra gefið sæði og ávaxtarsemi. A meðan eg var að huxa um þetta, kom fellibilur, sem kippti því öðru trénu upp með rótum; eg sá eptir því, þegar það féll, og féllst mér um, var þá sólin runnin, og farið að skyggja, en upp um loptið sló ljómandi roða, sem mér sýndist eins og slá birtu á stofninn, þar sem hann lá flatur og fallinn til jarðar; eg gékk heim og vildi finna þýðíngu þess sem í huganum var fyrir mig að bera. Híngað kominn vil eg nú vita hvört þetta hefir ekki komið hér fram. Eg sé þá hér, að einn aldraður maki — æruverður öldúngur, er hnigin til jarðar, frá hlið síns elskaða maka, sá, sem meðan uppi stóð, var máttar-stólpi þessa síns húss; hér sé eg börnin hafa misst sinn mæta föður, sem fyrr meir hafði forsorgað þau, mannað og uppfrædt, sem borið hafði þau á höndunum úng, og verið þeirra ráðaneyti síðan, og fyrirmynd í öllu góðu; þau eru nú að gráta góðann föður, sem gladdi þau svo opt, sem þau feingu að eiga svo leingi, sem þau kepptust um að styrkja og styðja, að gjöra hans efri ár svo ánægjusöm

sem audid var, og hvad fegin gét eg til þau mundu hafa viljad fá ad mega stydja hann leingur, ad hafa hann leingur í skauti sínu, sem svo opt á ýngri árum þeirra hafdi borid þau í sínu. En svo hrærandi sión sem þad hefur mátt vera fyrir þau, ad sjá hann bogna af ellinnar byrdi, svo hjartanleg gledi hefur þeim mátt vera ad stydja hann í elli sinni; en þegar þessi elskada Eikin þeirra átti ad falla, var ekki unt ad stydja leingur; æ! eg sé þeim hefir um þad fallist, enda þó þau hefdu mátt vita, ad tíminn var kominn, því þau fella nú øll tár vid hans kistu, svo sem vott barnlegrar ræktar og elsku, og hvørnig géta þau gleimt honum strax, þau géta gleimt honum aldrei, þau blessa hans minníngu, þau vilja sem optast hafa hans manndygda speigil fyrir augum, þau vilja keppast eptir ad rekja sporin hans, hvar sem þau finna; þau sjást enn vída og munu sjást. Þarna sé eg þá Greinirnar sem studt høfdu þau bognu tré, og útaf þeim kvíslast, og kvistina suma sem aptur útaf þessum sprottid hafa, sem ekki hafa afbrotnad ádur. Eg sé ydur nú, Børn og Barnabørn flykkjast ad kistu þess aldrada fødurs og afa, hvørt ykkar vill vera næst, hvørt ykkar sýnist naudugt géta slitid sig frá þeim elskudu leyfum. Vel sé ykkur, ad þid látid í ljósi ræktarseminnar edla tilsinníngu, ad þid opinberlega vottid, med tárum og ekka ad þid høfdud átt þann

fødur, ad þið hafið mist þann fødur, sem þið nú saknið og syrgið, hvørs minníngu þið blessið; en þó allrahelst hljótið þið Guðs blessun fyrir það, að þið vilduð vera honum eins og góð og hlýðin børn, að þið hafið haidrað hans hin gráu hár og gégnt hans orðum og þannig uppfyllt ykkar barnaskyldur, því það hefir blessunar fyrirheit, bæði þessa heims og annars. En þarna sé eg líka þá bognu Eik sem einmana varð eptir — þá öldruðu Ekkju hins framliðna, sem svo fast hafði bundið sín lífsforløg og hjarta við hans, að hún sýndist eins og verða að hníga ásamt með honum; þau sem um svo lánga æfi høfðu haldið svo fast í hendina hvørt á øðru — urðu nú að skilja, urðu nú að sleppa sínu handabandi, en hjartabandið þeirra hefir þar fyrir ekki slitnað, það slitur ekki dauðinn. Nú kémur að því, að mér rennur til rifja, eins og þegar eg þókti sjá þá bognu eik einmana standa eptirskilda; mér er gefin sú tilfinníngarsemi, að hjarta mitt gétur fundið til þess, sem annars líður. Guð styrki þig, aldraða Ekkja! Eikin þín er að sønnu fallin, sem skýldi þér svo opt, sem gladdi þig svo opt, hann sem bar þig á hondum — þú fékkst leingi að njóta hans, því úng varstu honum gefin — þú áttir hann bæði úng og gømul. Hresstu þig upp, þú færð að sjá hann bráðum aptur, stutt stund líður fljótt, ef þolinmóð þreyir og biður í samfundanna sælu von; þið studdud

hvørt annad, en nú stydji þig aptur þær elskudu greinir, sem útaf ykkur hafa sprottid — stydji þig, þángad til sá fellir, sem reisir þig aptur til óforgeingilegs lífs. Gud, sem híngadtil hefir styrkt þig og annast, mun ekki slá af þér hendi sinni, ef þú vonar á hann. Gud sé med þér, hans hægri hønd haldi þér vid. þángad til þú færd þá hvíld, sem þinn sæli ástvin hefir ødlast, sem þú líka óskar eptir. Ellin hefir beigt þig, og annad ekki, hún mun og seinast losa um líkhamsbøndin, og hvad sæl verdur þú þá, ad meiga teingjast ad nýu þínum hédanfarna ástvin, frí og frjáls af ellinnar óhægd og þýngslum. Láttu þér ekki leidast þó nú sé farid ad skyggja, tekid er ad kvølda, en senn hvad lídur, lýsir af degi — morgunrodans eilífa sameiníngardegi.

Þad heyrir mér ekki til, elskudu náúngar og vinir! ad lýsa þeim dygdum og gódkostum, sem ydar andadi ástvin hafdi til ad bera; þad er líka kunnugast ydur, sem þekktud hann best, og nutud hans umgeingnis og elskuatlota; eg eptirskil þad ødrum; einúngis vil eg minnast þess ad mér sýnist svo vída vera útdreifdir ávextir hans manndygdar, høfdíngsskapar, dugnadar og fyrirtaksframkvæmdar, alteins og mér sýndust ávextirnir, sem eg øndverdlega umgat ad verid hefdu í kríngum þau bognu tré; þau grøs og jurtir spruttu eins nær og fjær, og svo føgur og græn, eins

og þau mundu aldrei deya; — hans heidurs-minníng mun heldur ekki deya, mun leingi lifa eptir hann látinn; — þau gódverkin sem hann audsýndi; hafa borid og munu bera mikinn ávørxt; þad skulu vitna ekki einúngis þeir, sem nutu hans hjálpar, trigdar og ráda í þessum sveitum, heldur í fjarlægari bygdarløgum, því hønd hans var ætid til reidu, og útrétt bædi nær og fjær til ad hjálpa þeim naudstøddu, og til ad styrkja til nytsamra fyrirtækja og stiptana — þad skulu þeir vitna sem hann munadarlausa ad sér tók, og uppfóstradi — þad skulu vitna, bædi nærskildir og fjærskildir, sem næst Gudi þykjast hafa honum lán sitt ad þakka; hafa þá ekki ávextir hans manndygda vida sprottid? vída útdreifist? munu þeir ekki lifa leingi? Og þid Børn og náúngar hans! þér látid þad ekki heldur deya, eda í óminni falla, sem af þess-ari ydar elskudu eik hefir sprottid, hvad af henni hefir mørgum stadid gott, hvad margir af henni feingid hafa braud og bjørg. Eg hefi svo úttalad um þetta; en ekki gét eg leint því: ad mér sýnist þad nú líka vera komid framm, sem eg gat um ad eg þóktist sjá. Eda — sýnist ydur ekki eins og mér, ad einhvør indælis fridur hvíli yfir þeirri násølu ásjónu hins framlidna, og sýnist ydur hún vera ekki føgur? þad er eins og á hana slái fridarbjarma, sem eg veit ad er hér ad ofan, og svo sem eptirmynd þeirrar rósemi og fridar, sem

bjó í hjarta hans, og á yfirbragði hans deyandi; það er eins og það bæri vitni um þá sætu hvíld sem hann hlaut, en þó einkum eins og spegill uppá þann himneska frið og fögnuð, sem hans ódauðlegi andi hefir öðlast. Kasti það ljós, sem umvefur þá sælu anda, frá sér híngað nokkurskonar geislum, sem brugðið gætu fyrir hugskotsins augu, mundi það þá ekki helst, meðan augu vor eru föst á þeim bústað, hvar andinn fyrr bjó, sem líka gjörir sjón mannsins, í lifanda lífi, svo minnisstæða. Nú vitið þér eða trúið, að yfir honum hvílir himneskur friður, umvefur hann guðdómsins ljós, sem meðan vér dveljum hér í holdlegri tjaldbúð, getum ekki gripið, getum ekki séð, getum ekki ímyndað oss, því „það sem ekkért auga hefir séð, né eyra heyrt, eða í hugann komið, hefir Guð tilbúið þeim sem hann elska".

Eg hefi nú alltofleingi haldið yður uppi, heiðraði líkskari! eg læt mér lynda, ef þér hafið ekki óþolinmóðir áhlýdt, ef eg hefði gétað látið eitt huggunarorð koma niður í hjarta þess, sem harmar — hafi eg ekki rírt hins framliðna verðskuldaða heiður.

Ennþá litla stund, vil eg biðja yður! að bíða við, eg sé hér meira enn eg hugði; eg sé eina afbrotna uppvaxandi grein, sem fyrir skémstu var fögur og græn, en er nú affallin og fölnuð. Eg heyri gétið um aðra, eins blóm-

lega og þessa, sem állt í einu vetfángi núna losnaði og datt. Eg man eg sá margar fagrar uppvaxandi greinir í kríngum þau hin gømlu trén, eg sá þær blómgast og bera ávexti, en hvørnig mátti mér detta í hug, að þær kynnu að falla svo fljótt og visna og deya! Það er þá dótturdóttir *) hins framliðna øldúngs, sem hér liggur lík, sem híngað hefir verið borin til að fylgjast með líkams leifum síns elskaða afa, til þess að fá að hvíla sína úngu limi við hans hlið. Hún fylgdi honum um dauðans port — hún fylgir honum þá lífs og liðin; andi hennar lífs til andanna ríkis, en holdið liðið til svefnherbergis. Hún er fyrst flutt híngað inn, til að kveðja þetta sitt elskaða ættíngja hús, til að árna þeim blessunar, sem hér eru inni; til að þakka þeim fyrir aðhjúkrun og elskuhót sem henni høfðu auðsýnt. Það var dóttursonur **) hins framliðna, sem á leiðinni híngað, til að fylgja afa til grafar, mátti hníga í dauðans aungvit til jarðar; hann var úngur og hinn mannvænlegasti.

Eg sé að þér allir, saknið þeirra úr ættíngja hríng, og hvað þá foreldrar beggja, hvørjum fráverandi bárust þær sorgarfréttir um fráfall sinna elskudu barna. Hvað feginn vil eg aflétta ykkar harmi — syrgjandi foreldrar! en hjarta

*) Anna Guðmundsdóttir Petersen 20 ára † 4da Dec.
**) Hákon Haldórsson frá Kyrkjuvogi 18 ára † 9da Dec.

mitt egid er harmi lostid, af hluttekníngar og tilfinníngar-semi, og máské þad sé sá eini léttir sem eg géfid gét ykkur, ef þid mættud sjá, ad eg findi til ásamt med ykkur, ad eg findi til ad hønd Drottins hefir ykkur snortid, en hún særir svo aungvann, ad hún ekki grædi líka; grædi hún ykkar sár! strjúki hún tárin af augum ykkar! veiti hún ykkar hrelda og mædda brjósti huggunar og vonarinnar svaladrykk, og þid munud þá trúarørugg segja med Gudsmanninum, eins og eg vil í þessum og þvílíkum kríngumstædum géta sagt — þó gráti — gladur: „Eg vil þegja og ekki mínum munni uppljúka, fyrst ad þú Drottinn! hefir þad gjørt", „Gud gaf og Gud tók, lofad veri nafnid Drottins!"

S.

---

Medens Kjødet vorder til Støv igjen, hvoraf det er taget, medens Legemet, henlagt i Gravens mørke Gjemme, hensmuldrer og bliver til Jord, hæver den Redeliges og Frommes Aand sig høit over jordiske Forfængeligheder, søgende sin Plads i Herlighedens Rige, hvor den forklaret nyder Lønnen for sin retfærdige Stræben herneden. Ogsaa nu, vi med Vemod opfyldte Hjerter samles om Din Baare, Hensovede! for at ledsage Dine jordiske Levninger til deres sidste Hvilested, er det os en Trøst at vide Din Aand, frigjort af Støvets Læn-

ker, paa et Sted, hvor ingen Modgang mere vil ramme den, at vide den hisset i de Saliges Bolig, hvor Kampen mod Verdens Fristelser ophører, hvor den sande Lykke ene findes, i Nydelsen af den Glæde, hvortil den har gjort sig værdig i Forberedelsens Tid, hiin salige Glæde, som kun findes i Aandernes Rige. Jeg har vel ei tidligere kjendt Dig; men bevæget, som Enhver maa blive ved Synet af en Oldings Baare, hvis Vandel af Alle eenstemmigen roses, fremtræder jeg for at bringe Dig det sidste Farvel fra Efterlevende, hvis Hjerter, saalænge de slaae, med barnlig Taknemmelighed ville erindre sig Den, der faderlig hjalp dem i Modgangens Time. Jorden aabner sit kolde Skjød for at modtage Dit Støv, Dødens Stemme kalder til Graven; Du kan ei længer vandre blandt Dine og opmuntre dem ved Dit følgeværdige Exempel eller belære dem med Dine i en Række af Aar samlede Erfaringer. Men Mindet om Dig vil ei udslettes af deres Hjerter; de ville erindre Dig som en kjerlig Fader og en trofast Ven.

Nu staaer Du for den Høiestes Domstol, for ham, den retfærdige Gud, der straffer og belønner efter Fortjeneste. Han lønne Dig! Vi kunne kun velsigne Dit Minde og ønske Fred over Dit Støv!

Charl: Ern: Jacobsen.

Cand. philos.

---

Ekki af fordild til ad sýna mig, eda láta mig heyra á þessum stad, er eg þó hér frammi fyrir ydur, harmþrúngni sorgarskari! Ekki heldur gékk eg fram í þessi spor, til ad umbæta med ordum mínum þeirra Rædur, sem eptirlétu mér þenna rædustad, því engum þeirra er eg málsnjallari. Og allrasíst er eg hér í þeim tilgángi ad bæta á harma Ydar; því þad er skylda mín einsog allra minna hér staddu Embættisbrædra, svo sem hvørr okkar hefir gáfur, lag og ordsnild til, ad deyfa en ekki auka sorg Ydar. En — ad eg segi einsog var, þá var þad elska, sameinud vyrdíngu og þakklátsemi, sem kvøddu mig og leidbeindu mér híngad. Þad fyrra bendti mér, hid sídarnefnda hvísladi ad mér, ad Þessi, hvørn eg frétti fyrir fáum døgum ørendann vera, og nú hvílir í Líkkistunni þarna, hefdi fullrétti til Fødur míns, ad hann, ef hér vidstaddur væri, og hann þá aptur krøfu til mín, ad eg, í fjærveru hans, lýsti hvad margt og mikid Þessa høfdíngs- og merkis-manns sanna hjartans gódsemd lét honum í té og líknadi ópektum og lángt frá honum í burtu.

Veit eg samt vel og þekki, ad ekki er eg fær um ad fara í fatnad Fødur míns, hvørki hér né annarsstadar, í þessu né ødru skini; og því ber eg þad krauft til Ydar, háttvyrdtu! ad þér misvyrdid ekki þá skyldugu vidleitni mína, ad framgánga hér í fjærvist Fødur míns, til þess í fám

ordum ad votta vid likkistu ydar framlidna elsku-lega Födurs, þá verdskuldudu elsku og þakklátsemi, sem þessi sami velgjörari minna og einlægur vel-unnari minn, med öllum rétti ávann sér hjá mér og foreldrum mínum.

O! ad eg þá til hlýtar vissi og þekkti nú einúngis allt þad góda, sem Fadir minn frá fyrsta til sídasta, á þessum Framlidna ad þakka; — hvad allt þó hverki má kallast mikid né margt af öllum velgjördum þessa gofugmennis samanlögdum og audsýndum, bædi hér um pláss og annarsstadar, öllum hans vinum, öllum hans vandamönnum og vandalausum, um allann hans háa lífs aldur — mér væri sönn ánægja ad upptelja þad, og ekki vyrdist mér þad neitt ofgjört frá minni sídu, til ad halda á lopti hans verdskuldada lofi. Ad sönnu yrdi eg of lángordur, og dagsbyrta þessi mundi fyrr dvínud, enn eg gjæti þad altsaman upp þul-id. Þad styttir því töluverdt fyrir mér og flyt-ir því sem fram verdur ad fara, ad eg þekki ekki hundradasta partinn þaraf; enda gjörist ekki þörf, ad vera fjölyrdtur um svo alkunnugt efni, sem góð-gjördasemi hans var. Þad gétur þá gladt mig nú, og alla ydur, ad þó margt af velgjördum hans sé mér óþekkt, og þeim úr minni fallid, sem þeirrá nutu, eru þær samt hverki ókunnar né gleymdar þeim, sem þekkir alla hluti. Allar eru þær Gudi kunnar, og allar eru þær uppteiknadar í Lífsins bók;

því er líka endurgjald þeirra óyggjandi, og umbunin fyrir þær hefir ydar framlidni efkulegi nú af Drottni medtekid í heidri og vegsemd um endalausa eilífd.

En — leifid mér þó harmþrúngni líkskarj! í fám ordum ad minnast hér á eitt einasta gódverk þessa mikla merkismanns og sanna mannvinar, mínum nánustu audsýnt; eg segi eitt einasta, því fleiri er ekki tími til ad tala um, þó mørg, mørg fleiri sem eg þekki mínum til handa, ættu einnig ad nefnast, þar þau eiu þessu eina mjøg svipud og áþekk. Þad gétur líka verid nóg, eins og nú ástendur, til ad sýna hversu gódgjørdasemi og mannkjærleiki voru ydar eiginlega náttúrlegar dygdir.

Jeg þekti nokkud kríngumstædur Foreldra minna, þó úngur væri og frá þeim kominn, þegar ødlíngur þessi, í dýrri tid og hørdum árum, af sér sanneginlegum mannkjærleika og vidkvæmni, tók af bláfátækum foreldrum mínum, skuldum vøfdum og ómegd hlødnum, ýngstu Dóttur þeirra, Systur mína, til uppeldis og uppfósturs í sínum egin húsum, og til ad njóta af sér sømu blíou og sømu fødur ástar, er hann audsýndi sínum egin afkvæmum, og þad — eptir sem jeg frekast til veit — fyrir alls einga borgun eda þóknun, nema ef ské mætti þakklæti, og mátti þad ekki minna vera. Þessari minni Systur kom hann, til framfæris, og vandi hana vid øll þau kvennlegu dáda- og dugnadar-

verk, sem eginlegt var og alþekt er að tamin og framin vóru á heimili hans. En eins og það var vorum framliðna hjartanlega eginlegt að gjøra gott, eptir megni sínu og ástæðum, øllum sem hans leituðu — já margopt þó þess ekki væri af nokkrum manni farið á flot — svo var það líka fjarlægt og fráleitt hans mannelskufulla hjarta að fyrirmuna nokkrum, enda þó það hefði gétað, að ná því, sem þeir helst eptir æsktu, þegar hann sá að það gat orðið þeim til meinlausrar gleði, eða — eg nefni ekki — lángvarandi gagns, og tímanlegrar hagsældar. Og hvað varð nú þessum sann-nefnda Føður Systur minnar hægara, enn að halda henni sem barni sínu hjá sér, eptir það hún komst til framfæris, sem ætíast mátti sanngjørn krafa, og géðþekk skylda hennar fyrir uppfóstrið og menninguna? Onei! svo egingjarn var vor framliðni ekki; hann vildi af hjarta unna henni ennþá meiri mentunar annarsstaðar, og það svo mikillar sem hún sjálf var fær um í móti að taka. Með sannri gleði og af sannri føðurást, lét hann hana því lausa frá sér, þegar hún fór þess á flot, í þann staðinn sem hún ennþá dvelur í; má og vel hafa verið, vor framliðni sjálfur af alþektri fyrirhyggju sinni og framsýni, hafi undirbúið það, hún þángað komst og fékk þar inni. Hér á ekki við að minnast á, hvørnig um hana hefir farið, síðan hún veik úr þessum føðurhúsum; en það voga eg að fullyrða (því

þad ræd eg af vors framlidna føduráſt til henn= ar) ad ſá dagur hefdi ordid honum einhvørr ſá gledilegaſti á elli árum, ef audnaſt hefdi ad ſjá edur heyra hana gipta gódum ektamaka, því — hann elſkadi hana, og vildi henni eins vel og ſín= um egin holdgétnu bætrum.

O! ad þú minn Fadir vottadir nú hér í minn ſtad þad þakklæti, ſem dánumennid, þeſsi fram= lidni, á med øllum rétti af þér ſkilid. Hvørr ó= vidkomandi unti þér og þínum hollara? Hvørr ó= þektur audſýndi þér ſtærri velgjørníng? Hvørr hefir af þér verdſkuldad einlægara þakklæti? Eg veit þú ſvarar: Sónur! ſá ſem gjørdi á þér miſkunarverkid! leyf mér aptur ad ſvara: eigi meira, enn hid ſama, því manndáda verkid var hid ſama, ad minni meiníngu.

Tala eg þá um of, þó eg telji þig, háſæli! med meſtu mønnum þeſsa landfjórdúngs, fyrir al= kunnan mannkjærleika þinn, rauſnarlund og gód= gjørdaſemi vid aumſtadda brædur þína, hvørra margra ſannkøllud ſtod og ſtytta þú bædi bedinn og óbedinn varſt? Er þad þá ad kynja þó vér allir hér ſamankomnir, já þó margir — margir fleiri fjærverandi táriſt og tregi þig; en þeir þó meſt og ſáraſt, ſem þú audſýndir meſtar og ſtærſtar velgjørdir? Hvad bleſsud mun ei minníng þín í allra þeſsara hjørtum? Mér tjáir ekki ad minnaſt á meira, né framtelja fleiri gódverk þín, mínum og

mér til handa, þó mér væri nú skémt með því. Það lof sem þú átt fyrir þau öllsaman, og það þakklæti, sem eg ætti í ljósi að láta, skal þá viðurként og vel geymt í þe'su mínu brjósti. Þó skal eg í fám orðum enu þá segja, að þú, með ýmsum velgjørðum þínum, foreldrum mínum í té látnum, hefir lagt svo mikið út til þeirra, þegar á allt er litið og vandlega skoðað, sem svaraði því, að þú fyrir það einnig hefðir gétað uppalið og mannað, ef ekki líka til hlýtar mentað einhvørn bræðra minna. Og hvað margur maður mundi ekki géta sagt hið sama, þegar þínar mørgu velgjørðir við marganu hvern eru rétt metnar, samanlagðar og vegnar á þá réttu þakklætis vog? Mundi það mjøg undra þá, sem þig rétt þekktu, þó þú, vegna góðgjørða þinna og høfðíngs gjafa, hefðir fátækur maður orðið, og nú litið átt til í elli þinni, en stadist fyrir aðstoð nærbúandi barna þinna? Allir vitum vér, að þú gjørðir mikið og mørgum gott, ekki samt til að kaupa þér hrós og heiður, á mis við hvørn þú þó ekki gatst farið né hann fyrir þér heldur dulist; þar fyrir varstú líka maðurinn meiri og elskuverðari, að þú ekki ofmetnaðist; þess var ekki heldur að vænta, ef rétt er aðgáð; því þú þekktir, að sá sem gaf þér þitt góðgjørðasama hjarta, hann veitti þér líka þau efni, með sinni blessan, að þrátt fyrir þína miklu rausn og hofðíngsgjafir og góðgjørð-

ir, varstú samt ætíd þess umkominn, ad styrkja og adstoda adra. Þú ofmetnadist samt ekki, segi eg, því þú sannfærdist æ betur og betur um það, sem þú annars sást og fyrir laungu sídan þekktir: ad það var Drottins ædsta nád, ad þú bædi gatst og vildir audsýna ødrum góðgjørdir þínar.

Eg mun nú hafa stadid hér ofleingi og uppihaldid ydur, háttvyrdtu! en samt til vissu, ekki svo leingi sem eg vildi. Þó — eg fer úr þessum stad til ad eptirláta hann ødrum, þeim, sem betur enn eg, er því vaxinn ad framtelja og vídfrægja dygdir og mannkosti ydar elskada framlidna, okkur hér samankomnum til huggunar, og svo enn betur geymum lifandi hans loflegu minníng.

Eg kved þig þá í sídasta sinni heitri og ógleymanlegri hjartans þakklætis kvedju Foreldra minna og systur, þinnar fjærverandi fósturdóttur, minn háttvyrdti hjartanlegi velunnari! og eg heiti þér því, ad þín minníng skal lifa í hjarta foreldra minna á medan þau draga øndina; eins og líka hún ei skal lída mér og systur minni úr brjósti, á medan eg man til hennar, og hún byggur ad, hvørjum hún, næst Gudi, á ad þakka uppbyrjun sinnar tímanlegu velferdar. Já, minníng þín mun blessud vera á medal allra samtída manna og nidja vorra, þeirra er til þín hafa spurt, sem og hinna, er

rétt fá ad þekkja Nafn þitt, og med því þína vídt útspurdu mannkosti, hvörjum sem flestir keppist eptir ad ná og líkjast.

G. J. B.

## Sídast taladi Sóknarpresturinn, ádur lík-id var úthafid, fylgjandi fáyrdi.

Þegar svo margir lærdir og merkir menn, hafa hér, med snjöllum rædum, borid vitni um: þessa góð- og nafnfræga - öldúngs og heimilis húsbónda, sinn og almennings söknud og þá virdíngu, er hvörr í sínn stad, af hér nærstöddum fjölda, finnur sig hrærdann til ad veita hans í þessari nákistu fulda líkama, til heidurlegrar greftrunar, virdist mér næsta óuilhlýdilegt, ad eg einn þegi, og ekki finni mig orsakadann af líkum tilfinníngum og þeir hafa hvatst af, ad frambera verdskuldad þakklæti; nei! eg finn mig, lángtum fremur hafa tilefni til, ad framstynja nú, í þessu húsi, sorgblöndudum vidurkénníngar - og þakklætis - ordum, fyrir þad mikla og margfalda góda, er eg í því og annar-stadar hefi adnotid, af edallyndi þessa vors fram-lidna ástvinar, svo vel í elskuríkum blídu- og vin-skapar - ordum, sem notalegum og þad ástundum höfdínglegum velgjördum, ætíd útilátnum, einsog af kjærleiksríks Fodurs hjarta og höndum. Mitt hug-skot endurminnist, ad í þessu húsi hafdi eg sem

géstur, marga ánægjustund af þinni hjáveru, ó-daudlegi vin! þinn Gud, hvørn þú elskadir og þjónadir, hefir nú endurgoldid þér þad, ásamt allt þad gott og uppbyggilegt, er þú, yfirhøfud, fyrir hans adstod, gjørt hefir í lífinu; og af því þad var hvørki lítid né léttvægt, hefir þín dýrkeypta sála í himninum — hvar þú sífeldlega hafdir þinn huga og andlega umgengni — ødlast eilífrar dýrd-ar ómetanlega þýngd, og hvar þú, sem svo opt mett-adir húngrada, sedst af nægdargjædum Guds húss; þú, sem drikkjadir þyrsta, svalast af vellystinga-straumum; þú, sem klæddir nakta, ert íklædur hvít-um klædum; já, þú, sem gafst' þeim bágstøddu margra peninga virdi, hefir ødlast þá arfleifd, sem ekki má rotna og ekki skémmast; þú, sem med rád-um og dád, med ordum og verkum stiuktir svo marga til ad lifa, lifir sæll um eilífar aldir; þú, sem sást aumur á svo møgum aumum, sjer Gud og þinn Frelsara Jesúm Krist augliti til auglitis; þú, sem svo marga gladdir, gledst med óumrædileg-um føgnudi. Þeisi þánki gledur mig, af þessari fullvissu fagna eg í hjarta mínu og fleiri, er þér unntu hugástum. Þó seknudur þinn, ad vonum, falli oss sárt, fridast vor hjørtu af ad vita, ad þér lídur vel, ad þú ert eilíflega farsæll; já, med vid-kvæmu hugskoti, og af þess tilfinníngum, þeinkjum og seigum vér: Gudi sé lof fyrir þína lausn, til ævarandi fridar og frélsis! og — hvørsu munum

vér ekki síðar fagna, sem nú syrgjum þína burtför, nær aptur finnum þig á fegins-degi, þá munu vor hjörtu sameginlega fagna og þann fögnuð orkar enginn að eilífu af oss að taka. En sá Guð allrar náðar, sem ekkért gott og honum þóknanlegt verk lætur ólaunað, endurgjaldi þinni góðfrægu eptirþreyandi Ekkju og öllum Niðjum Ykkar það, þú hefir mér og öðrum gjört til góða, með ótvínandi blessun, andlegri og líkamlegri, fyrir vors Drottins og Frelsara Jesú Krists skuld!

Á þeim Drottins degi, á þeim fyrsta kirkjuársins hátíðlega degi, á hvörjum þín sála, heittelskaði, ódauðlegi vin! leið í himininn, og það um sama leiti, og minn fjötraði andi minntist þín, var í helgum ræðum, af Jesú Krists stríðandi kirkjulimum, í vorum evangelisku söfnuðum sagt og súngið: **Hósíanna, Syni Davíðs! blessaður sé sá, sem kémur í nafni Drottins!** en — þúsundsinnum hafa fegurr hljómað raustir enna útvöldu, þegar þín sála kom í þeirra hóp og þeir fögnuðu komu þinni, þanninn: **blessaður sértu, sem til vor kémur í nafni Drottins!** og þá hefir þú undir- og endur-tekið þeirra raddir, lángtum hátíðlegar enn fólkið forðum hrópaði fullt af gleði við Jesú konúnglegu innreið í Jerúsalem, honum til vegsemdar: **Hósíanna Syni Davíðs, vorum Drottni og dýrðar Konúngi! Hósíanna í hæstum hæðum!** og litlu síðar hefir

þín elskada dótturdóttir ásamt þér og øllum heiløgum endurkvedid þennann dýrdarsaung.

Drottinn almáttugi Gud og Fadir! blessa þú jafnan þetta hús, úr hvørju vér nú berum vors ástvinar lík á leid til grafarinnar, hann hefir lengi med heidri og høfdíngskap, dygd og dugnadi í því búid, hann þarf þess ekki heldur leingur vid, og eptirskilur menjar verka sinna ødrum til nota; hann hefir nú adra ædri bygglngu af Gudi, hús, þad ekki er med høndum gjørt. Hjálpa þú, gódi himneski Fadir! og hugga hans eptirþreyjandi dygdum prýdda Ekkju, veittu hennar kraptur og styrkleiki, unun og athvarf, allt til þess þú hana hédan kallar, til þeirrar sælu og lífs, sem hennar hjartkjæri ektamaki um stuttann tíma er inní genginn á undan henni.

Þeirra børn og afkomendur, þeirra ást= og tengda=vinir, veri þér og þinni miskun, alvaldi Gud! falin, já, vertú fyrir Jesúm Krist vor allra vinur og sannur naudhjálpari, og þó þér þóknist ad svipta oss afsjón og adstod vorra kjærustu vina, náúnga og hjálparmanna, gamallra og úngra hér á jørdu, (eins og litum á þessum tveimur Líkkistum, ad samkvæmt þínu alveldis bodi, er nú skéd), og þeir, sem annad hverfult yfirgéfi oss, yfirgéf oss ekki samt, vor blessadi sálar vinur, Drottinn Jesú! leid oss eptir þínu vísdóms= og miskunar=

rádi og medtak oss lokfins til eilífrar æru, þá héðan förum. Amen!

P. J. S.

# Líkræda,

framflutt í Njardvíkur kirkju, þann 9da December 1841, yfir Líkkistu Öldúngsins Jóns sáluga Sighvatssonar Dannebrogsmanns.

## Bænarord.

I Jesú Krists blessada nádar Nafni. Amen!

Lifandi Gud, vor daudlegra barna þinna Fadir! Bidjum þig hér, vid þetta sorgar- og saknadarverda tækifæri staddir: hjálpa þú oss, ad lifa svo, medan lifum í vorri stétt og kallan, ad vissir séum, vid umskipti tímans og eilífdarinnar, ad hreppa þau laun, er þú, fyrir trúlyndt líf, fyrir dygd og dugnad hefir af nád vegna Jesú Krists fyrirheitid öllum þeim, er finnast trúir allt til daudans; til þín, þinnar miskunnar og födur handleidslu hefir oss varpad verid frá módur lífi. þú hefir allt híngadtil borid fyrir oss nákvæma umhyggju; æ! lát hana framvegis nádarsamlega vidhaldast vid oss; þinn guddóms kraptur og anda adstod styrki oss jafnan ad lifa svo, þér til dýrdar en oss og medbrædrum til heilla, ad vissir séum eptir daudann, ad ödlast eilífa sælu, fyrir Jesúm Krist, Amen!

Sérhvørr sá, sem svo er kominn til skynsemi, ad gétur íhugad, hvílíka fødur umhyggju, miskunarríka handleidslu og stadfasta trúfesti ad gódur Gud hefir fyrir honum borid, frá hans lífs birjun til þess þá vordna tímabils, má, med tilfinníngarsømu hjarta og viðkvæmri samvitsku undir taka Guds manns **Davíds ord**, af Sálmi hans þeim 71ta, þanninn: **Gud! til þín var mér varpad allt frá módurlífi, þú hefir borid umhyggju fyrir mér.**

Jeg gjøri mér í hugarlund, háttvirdtu tilheyrendur! ad þér allir af lidinna lífdaga reynslu hafid ærna orsøk ad jáqveda því, þared sérhvørr ydar hlítur ad kannast vid, ad eptir því, sem hann hefir brúkad þær dýrmætu Guds gáfur, skynsemi og frjálsrædi, og þarmed ástundad dygd og dugnad, hefir Guds forsjón blessad hann og farsælt hans ráddeildarsømu fyrirtæki til heillaríkra afleidínga, bædi fyrir sjálfann hann og adra; og — þó ástundum hafi sokum vissra kríngumstæda eitthvad þad mætt, er í brád hefir hnekkt áformsins framkvæmd, er skynsamlega var í upphafi birjad, hefir samt, þess alvísa Guds nádarrík stjórnun leidt þad, øllum þeim, er honum af hjarta treyst hafa, til hagkvæmasta útfalls, þar allir hlutir verda ad þéna þeim til góds, sem elska Gud. Þad verdur ekki til hlýtar í fáum ordum frammtalid,

hvílikt verkfæri ad í Guds hendi er dygdugur og duglegur madur, gégnum líf sitt hér á jördu, sem hefir Guds ótta og mannelsku grundvallad í hjartanu, hann útbreidir Guds dýrd í margfaldann máta, og menjar hans gódverka og eptirbreitnisverda dæmis; vara til hinnstu alda; ad jeg ekki fái mér til orda, hvörsu glød, hvörsu rósöm og ánægd hans samvitska má vera, ad kvøldi sérhvörs dags, en þó einkum ad kvøldi lífdaganna, nær hans innvortis medvitund sannfærir hann um: ad hann, eptir sér léntum krøptum og ástandi hefir þóknast Gudi og gagnast í øllu leyfilegu, gódu og uppbyggilegu sínum medbrædrum og eblt þeirra heillir, svo vel andlegar sem líkamlegar, og hvörsu margir hafa ekki orsök ad þakka honum lífs og lidnum, næst Gudi, fyrir allt þad góda, þeim hefir af honum leidt, og ekki þar med nóg, heldur flýtur þad sama, líka sem gégnum adra rennu frá þeim til nidja þeirra, frá kini til kins. Sá madur, sem gégnum sína lífdaga frá úngdoms árum til síns vidskilnadar, setur sér mark og mid, ad fylgja þeim Jesú Krists rádum, er hann medal annara gaf sínum trúarbragda játendum, þá hann sagdi: **Leitid fyrst Guds ríkis, og svo hans réttlætis,** verdur og einninn hans fyrirheitis hluttakandi: þá munud þér fá í vidbót allt hvad þér vidþurfid; sá sami vidurkénnir audmjúkur, og undirtekur med þakklætisfullu hjarta ádur

framfærd Davíds ord; Guð! til þín var mér varpað allt frá móðurlífi, þú hefir borið umhyggju fyrir mér; þessi sömu ord vyrdast mér og svo hýda einkar vel uppá kjör og æfi ástand vors í lifinu nafn- og góð-fræga höfdingsmanns, og nú í Gudi burtsofnada elskada ástvinar, Jóns sáluga Dannebrogsmanns Sigvatssonar, já, um það sama munu víssulega flest atridi hans loflegu lífs frásögu, sá sannfært ydar bródur-kjærleika, og það því heldur, sem hátt-virdtir hlutadegendur hafa í áformi, ad láta hana vid tækifæri á prenti útkoma, eptir svo merks manns egin Handriti; af því segi eg, fullvissist þér um, ad þessi vor fullsæli, hefir þar med viljad sýna: ad hann, med hrærdu hjarta, og audmjúkum og þakk-látum tilfinníngum, prísadi jafnan med ordum og at-höfnum, Guds fødur-forsjón, hans umhyggju og handleidslu á sér gégnum lidid líf. Jeg vona, ad ydar kjærleiki ekki misvirdi, þó eg leidist til, ad drepa hér á það, er mér virdist merkilegast, einkum sem hnígur ad því, er hann sjálfann snerti, gégnum hans lífs-hlaup. Þegar vor blessadi Framlidni missti Fød-urinn 9 ára gamall, og hans elskada módir hélt vid búskap med þessum einka-syni sínum og fjór-um dætrum, øllum ýngri honum, mátti med sanni segja: ad þessum fødurleysíngjum var varpað til Guðs, og þau vonudu að hann mundi fyrir þeim umhyggju bera, einsog sídar dá-

samlega skédi. Enginn veit hvar sæls manns efni situr, segja menn, því snemma birjadi heppni hans og sást berlega, ad Gud bar umhyggju fyrir honum, þared næsta litill vísir, vard fyrir hans, sem únglíngs, makafáu hirdíngu og pøssun, ad ardsømum ávexti, mørgum til tøluverdra nota, og hvad meira var, og jafnvel dæma fátt, vottadi sig árædi hans og dugnadur svo, í rádaþroti af húsnædis-eklu, ad tók ad byggja íveru hæli á eydiplátsi. Sem vandalausra hjú, audsýndi hann trúlyndi og dugnad nær og fjær til lands og sjóar, og þad, fyrir nú á tídum, metid veiælt kaup, viss um, bædi af gódri skynsemi og upplýsíngu, ad sá Gud — hvørjum hann þjónadi undireins og mønnum — mundi bera fyrir sér umhyggju, og endurgjalda med nád og blessun; loksins gaf hann sig í þjónustu hjá þeim skynsama og gódfræga Kaupmanni Andresi Kristinn Jacobæus á Keblavík, sem ad nokkru leiti stirkti hann og lánadi til búskapar byrjunar, eptir þad búinn var ad þekkja hans ráddeild, dugnad, heppni og vandada breitni. Búskaparstofn og undirlag vors burtfarna vinar, var næsta lítid, í samburdi vid þad sídar af því leiddi, já, hvad var þad, til ad koma øllu því í verk, er vitum til, ad hann med framtíd gjørt hefir? Hann hefir í því ástandi mátt þenkja einsog tídum fyrr og sídar, med trúnadartraustsfullu hjartalagi: minn Gud! á þér

hefi eg haft von frá úngdómi mínum, til þín var mér varpad allt frá módurlífi, þú hefir borid, og munt bera umhyggju fyrir mér; þetta hans traust vard og ekki ad litlu, því Gud blessadi svo verkin hans handa, hans fyrirsjón, framkvæmd og atorku, ad hans í fyrstunni vesæla ábýli, vard fyrir margs-konar betrun og byggíngar, rétt sem höfdingja setur. Þetta má þó jafnvel heita ekki þad mesta af öllu því er hans erfidissömu — og högu — hendur unnu mörgum til nota, í kirkju, í timbur- og annara-húsa, í skipa, báta og fleira slags smídum — hans mörgu flutníngs-ferdir og ástundum hættusamar til sjós, tídum med veiku lidi; hans fiski skútu bygging í bágri tíd, er þá til féll, heppnadist honum, sem annad margt fleira, er fyrirtók, eptir óskum, því sá Gud, sem fyrir honum bar umhyggju, blessadi hann svo, med gódum ablabrögdum og ödrum tilfallandi ardi, ad útfallid vard honum sjálfum til heidurs og heilla, en mörgum ödrum til hjálpar og adstodar.

Sokum hans alkéndu greindar, hreinskilni, dánumennsku og dugnadar, var hann af yfirvöldunum valinn og settur, Sættanefndar- og Þorskaneta brúkunar-tilsjónar-madur, hvör embætti hann, med almennings ánægju og virdíngu færdi um mörg ár, uns hann, med verdskuldudum heidri fekk lausn frá þeim. Med, honum sam-

valinni ad dygd og dugnadi hjartkjærri ektakvinnu, abladi hann 5 barna, sem øll nú ektabundin, med ástkjærum, uppbiggilegum Møkum, bera med- al vor óiækann vott, Foreldranna sameginlegu ad- ferdar í þeirra úngdóms loflegu uppfóstri og ment- un, bædi andlegum sem líkamlegum efnum. Jafn- vel þó ad erfídar hindranir í upphafi vildu hef- jast ad tálma þeirra tveggja elskudu innbyrdis hreinu ást, til, svo sídar uppbyggilegs hjónabands sameiníngar, vard allt fyrir þad sú endalykt: ad fyrir gódra og skynsamra manna og høfdíngja til- stirk, enn þó einkum Guds vísdóms ályktun, mørg- um til heilla — hvørs ráð um eilífð stød- ugt stár og stjórnin klár — og fyrir hvør- jum sem er mikill í ráðum og mektugur í athøfnum, enginn hlutur misterst, lét þad framgáng hafa, sem hans speki, hans stjórnandi hønd, hafði ádur ákvarðað að ské skyldi. Ekki einúngis átti vor fullsæli, marga kunníngja og vini hér á landi, heldur og svo er- lendis, hvørt hann, til enn meiri lærdóms frama í Skipstjórnar-frædi, sendi annann sona sinna, þá hann lét menta hinn hér, í þeirri sømu — og þaradauki adra fjóra uppfósturs sveina sína, til handverka ydnar; í einu ordi: hann var sinna egin- og barna- barna og fóstur- og toku-barna sannkalladur ástríkur og umhyggjusamur Fadir.

Þó hann væri mikill heppnis- og láns-mad-

ur reyndi hann þó ýmislegt mótlæti og skada, sem hann med séideilislegu og honum eginlegu stødugs lyndi leid. O! hvøisu mátti ekki sorg og søknudur þreyngja sér inní hans vidkvæmu sálu fyrir rúmu ári sídan, þegar fríkkur og duglegur fósturfonur hans á tvítugs aldri tapadist af siskibáti? en — hvørki þetta edur annad fékk raskad hans skynsömu sannfæringu og setta sinnisfari; hann var um svo mørg lidin lífs ár ordinn adgjætinn reynslu vottur þess: ad hvad helst honum mætti og jafnvel á mædusømum elli árum, var sá himneski Fadir hans óumbreitanlegi Fadir og Gud, sá Gud, til hvørs honum var varpad allt frá módurlifi, sá Gud, sem fyrir honum hafdi borid umhyggju. Aminnstur hans fósturfonur, ásamt ødrum 13 uppeldisbørnum, skyldum og vandalausum, voru honum øll eins af einlægu fødurhjarta ástfólgin, og hvørra allra veg í úngdæminu hann af alebli ástundadi — eptir mismunandi gáfum og sinnisfari sérhvørs þeirra — ad greida þeim til hagsælda hér og sídar, fyrir innrættann Guds ótta, dygd og metbrædra elsku, samkvæmt hans egin fagra dæmi; þess meiri alúd og ástundun hann vardi til þessa, því framar mátti hans og nokkurra fleiri þeirra fráfall til menníngar komnum, verda honum, á gamals aldri, ad vonum, til mikils mædu auka, engu ad sídur lét hann sér nægja ad seigja med ordum og innvortis audmjúkum aud=

vørpunum til Guds: Þú ert Drottinn, Þú gjör=ir hvad Þér er Þókknanlegt, já eins og Jesús: Fadir! ekki minn, heldur verdi Þinn vilji! Hans lífs margbreitta ástand, hafdi kénnt honum og sannfært um: ad állt fer best, sem fer, hvørn=in sem mønnum annars líkar Þad — undir Guds vísdóms = almættis = og = gjædsku = stjórnun; hann stirktist Því, vid Þann Þánka, Þá von: ad fleiri Þeirra barna er hann fóstrad hafdi, mundu bera men=jar hans og verda med tímanum Guds og konúngs=ins verdugir Þegnar — Þannig var hans sífelda ad=ferd, vid egin, og barna = og fóstur = børn, já, Þvíumlíkt var hans kjærleiks = ríka sinnisfar yfir høfud vid alla, bædi til ad géfa medbrædrum gód og eptirbreitnisverd dæmi og — til hjálpsamrar uppbyggíngar, ad gagnast sem fleirstum. Þetta sama hjartalag audsýndi hann, sem samkristinn med=borgari og félags = limur safnadar sinnar Sókn=arkirkju, hvørri hann gaf silfur = spenstadann sin=ann messu Slopp, prídilegann Hokul og Altaris=klædi og Þar ad auki, glæsilegann Ljósa = hjálm, fyrir utan timbur, saum og annad fleira til kirk=junnar vidreistar; Þetta Þókti honum enn nú ekki nóg, heldur Þar á ofan, skeinkti óvidkomandi kirk=ju, snoturlega tilbúinn prédikunar stól, og mískétil Þvílíkra stada, enn nú fleira, sem mér er ekki full=ljóst. Ofaná Þvílíkar hans høfdínglegu gáfur, bætt=ust og adrar fleiri, á medal hvørra ekki ættu ad

gleymaſt hans mannæru gjøf til Eyafjalla ſveitar innbúa, við uppáfallandi eldgos þar, 10 Tunnur Rúg, í þakklætis ſkyni, fyrir fyrrum framdregið úngdóms líf í því plátſi, ſem og heiðursfullt tillag, til Islands Suduramts Húſs- og Búſtjórnar-félags, og þaraðauki útvegaði því ſama frá øðrum tøluverðann ſtyrk. Hann undirbjó og gjørði meſt, að, ſem í hans valdi ſtóð, að náſkild ſtúlka hans elſkulegu ektakvinnu, heyrnar- og mál-laus, varð, með utan- og innanlands yfirvalda leyfi, konfirmerud. Þeſsir hér taldir og lángtum fleiri hans fullkomlegleikar, voru ſvo hvervetna víðrómaðir meðal æðri og lægri, að þeir að lokum komu að Konúngſins háſæti, og því ſendi hann vorum elſkaða burtkallaða til verðugs-heiðurs Dannebrogsmanna orðunnar Silfurkroſs.

Þremur árum fyrir hans afgáng, þá hann var áttrædur að aldri, tók heilſu hans mjøg ſvo að hnigna, einkum af høfuðſvima og heyrnardeyfu, ſem gaf honum grundaða von um; að hans lauſnardags mundi ekki lángt að bíða, og eptir hvørjum hann nokkru ſíðan innilega lángaði, já, hans hugur var framar í hæð enn heimi, hann girntiſt að ſkilja hér við og vera hjá Kriſtí Frelſara ſínum. Lokſins ſtaddur í útihúſi, varð hann ſvo yfirfallinn af ſtríðri ſótt, að eptir 5 daga þjáníngu, optaſt þó með fullkomnu ſálarfjøri og trú-

udu bænar ákalli, sofnadi hann sætlega í Gudi þann 28da fyrra mánadar, hérumbil um Nónskeid, eptir ad hann ádur med yndislegum fadmløgum hafdi kvadt sitt ektahjarta, á þeirra heidarlega hjónabands 50ta ári, og lagt fødurlegar blessanir og hjartanlegar heilla óskir, yfir egin børn, tengda = og barna = børn, hjú og alla eptirlifandi ástmenn, vini og kunningja. Þanninn hefi jeg, jafnvel ófullkomid, drepid á helstu lífs framdráttar atridi þessa, einhvørs ens mesta merkis = og dugnadarmanns, hvørs hjarta rádvendni frá úngdómi var svo grundvøllud, svo stadføst, ad engin tilfelli lífsins orkudu ad raska hans hugferdi og þeirri stefnu hann tekid hafdi til Guds dýrdar framgángs og medbrædra heilla. Sérhvørr sem þannin lifir, má fullviss vera vid lífsins þrot um, ad Gud, til hvørs honum var varpad allt frá módur lífi, hefir borid fyrir honum nádarríka umhyggju, og — ekki einúngis fyrir honum einum, heldur og líka fyrir hans afkomendum, því þad rætist, sem Skáldid af heilagri andagipt fordum saung: Gudhræddur skal njóta nádar, og nidjar margir eptir hann, miskunsemd vid menn fáráda, minnast Gud og launa kann. Jesús sagdi sjálfur: sælir eru miskunsamir, þeir munu miskun hljóta; þetta hafdi vor elskadi framlidni sér i hjarta innrætt, og því, Guds ótta og dygd og Jesú Krists

eptirbreitnis = verdasta mannelsku dæmi sér fyrir leidarvísir. „Pad munu ekki ósannindi, ad andlits-ins útlit sé spègill sálarinnar, edur, ad çreindir og eptirtektasamir menn fái ástundum gétskad sér til, hvad í hjartanu byggir; sé þetta manneskjum mögulegt, hvad þá þeim alvísa Gudi, sem er mann-eskjunnar verkmeistari og veit, hvad med einni og sérhvørri þeirra býr. Jeg vona, Háttvirdtu vinir! ad þér ekki misvyrdid, þó eg hér framstynji egin hjarta tilfinníngum, um þad, hvørnin þessi, sem hér nú liggur lík, hefir reynst mér á 16da ár, sem vissulega ødrum fleirum frá øndverdu; já, af medlídun og hjartans innrætti mannelsku, undir-eins og eg var hér til Sókna kominn og í mínu þá verandi ástandi, vard hann fyrstur allra til, ádur enn eg einusinni leit hann, ad audsýna mér høfdíng-skap og jafnframt hagkvæma gáfu, og — hvad meira var: ad því sama, án nokkurrar minnar verd-skuldunar, um téd tímabil, framhéldt hann stød-uglega til okkar sídasta samfundar; já, jeg má med sanni segja: allt til og fram á dánardægur. Hann var ekki, eins og reir af vindi skékinn; hann var ekki eins og hverful vindaský, ekki, sem kast-ali sá, er kallast í lopti bygdur, eins og sumra manna vinskapur reyníst; víst ekki rættist á hon-um, sem máltækid segir: ofþreyta má valinn vin; því einkis þess bad eg hann, ad ekki yrdi jafnskjótt vid, og — þaradauki vóru tídum hans

munns- og bréfa-ord þessi: „viltu nú einkis óska af mér"?

Minn Guð! hvar fæ jeg hédanaf, þad eptir kann vera minna fáu lífdaga, eins valinn, eins stadfastann, eins tryggdarfullann vin, sem hann reyndist mér? Því alls einginn af vandalausum mønnum hefir stígid í þau spor mér til handa híngad til, sem hann, og — því er þad ekki ósamkvæmt mannlegum tilfinníngum, ekki án orsaka, ad mitt hjarta viknar, fullsæli vin! vid sjón þinnar Líkkistu, vid þá vissu, ad þú ert mér, eins og ødrum sem eptirlifa, horfinn af þessari jørdu; en — minn hugur gledur sig aptur á móti vid þá tilhugsun, þá óyggjanlegu eptirvæntíngu, ad jeg finni þig aptur og sjái þig, ásamt ødrum útvøldum í himinsins dýrd, í ópenkjanlega ædri og betri fullkomlegleikum, enn hér eru møgulegir; hafi þitt útvortis augnaráð, þitt tillit, undireins vottad þinnar sálar heimuglegu ánægju, þegar þú gjørdir gott, edur í einhvørn máta gladdir edur þénadir þínum medbrædrum, sem jeg, vid mér ánægjusama samfundi okkar tídum merkti, hvørsu miklu framar mun þín forklárada mind í himinsins sælu, verda sjónum vina og blídlegri, þegar þú ædri krøptum gjæddur, sýnir merki þess kjærleika, sem helgum dýrdlíngum er eiginlegur.

Ekki einúngis bar Guð, til hvørs vorum

héðan'farna vini var varpað frá móðurlífi, fyrir honum dásama umhyggju, heldur og líka fleir- um, í því, að auðga hann svo og blessa, að svo að falla, af eingum eður mjøg-fáraumum efnum í fyrstunni, ebldist þanninn: að með betri fésælum mønnum mátti telja, og — að hvørs atorku- og dugnaðar-menjum afkomendur hans munu leingi búa, já, ekki þeir einúngis, heldur aðrir lángtum fleiri í mørgu tilliti. Hann, sem vel mundi til og optlega minntíst á, að fyrrum var fátækur, útrétti tíðum af ástríku hjarta, nauðlíðandi bræðr- um hjálpsamar hendur með að géfa og lána, og með ráðum og dáð, að styrkja þeirra hag, ekki ætíð fyrir annara sjónum, heldur og optlega í leyndum; þetta kom ekki einúngis fram við einn og einn einstakann, heldur og líka marga, þegar á lá, því optast var hann sjálfur frumkvøðull með mannæru og høfðíngskap og hvatti líka aðra, að létta undir annara nauð og styrkja til almennings heilla; þar með gaf hann mørgum eptirbreitnis- verð dæmi, já, hann lét einatt sitt góðverka ljós lýsa fyrir mønnum, að þeir þar við vektust að dýrka Føðurinn á himnum. Ó! hvørsu opt munu ekki hans manngjæðsku offur hafa verið Guði þókknanleg? á honum hefir því á*n* efa rætst: að hýrann gjafara hefir Guð kjærann; yfir høfuð: hefir hann af allmørgum ekki sízt géfið það Guði sem Guðs er, og — að

minni hyggju verið, þegar á allt er litið, einhvörr helsti þeirra þriggja manngérsema, er vér nú um skamt soknum úr Njarðvíkur Ytra hverfi, og Guð má ráða, hvört jafnoki hans að ællu, kémur bráðum til veru hér um pláts.

Jeg vona: að einginn beri brigður á, að þetta mannval var gjæddur góðri skynsemi, Guðhræðslu, siðprýði, mannkjærleika, høfðíngskap, géstrisni, vin- og stað-festi, trygð og trúlyndi.

Hans atorka, hans heimilis stjórn, hans staka reglusemi, var eptirbreitnisverð; hann var hófsamur, ráðhollur, lastvar, fá-var- og haldin-orður, í einu orði: hann æfði sig í, að varðveita í sérhvörju sem honum mætti, góða samvitsku fyrir Guði og mønnum. Fyrir þvílíkar dygðir og dugnað varð hann góð- og nafn-frægur bæði hér- og utan-lendis, já, hann var einhvørr sá, að minni meiníngu, sem best kunni brúka auð og fjarlægur að metnast af honum, eður vyrðíngum þeim, er honum að verðugleikum tilféllu, sem þó vill tíðum suma þá henda, er af litlu hefjast. Í fleirstu, ef ekki øllu falli, var hann í sinni stødu, heimilis, sóknar, sveitar, Sýslu, já, føðurlands prýði og sómi, og einhvørr manna mesti bjargvættur. Skynsamleg røggsemi, leiðbeind af mildi og hjartans elskuríkri umvøndun til leiðréttíngar, var sífeld aðferð hans við heimilis hjú, og — þau sem báru skyn á, að meta það rétt, elskuðu hann

sem fødur. Stakar velgjørdir vid ríka og fátæka í ordum og verkum, gjafir til svo margra aumra og hjálpar-þurfandi, til Ekkna, til fødurlausra barna, til sómasamlegs uppfósturs og mentunar, svo vel honum skyldra sem óskyldra únglínga, til opinberra félaga stirktar og undirstødu, til adstodar þarfa medbrædra, hér og erlendis, til eigin Sóknar-Kirkju, já, til fleiri vidreistar og prýdis, þetta hvørt fyrir sig og því heldur yfir høfud, hefir áunnid honum þann féssjód á himni, þann eilífa nægta-féssjód, hvørjum mølur og rid fær ekki grandad, og þjófar ekki orka ad grafast eptir. Þó hans afsjón sé oss tilfinnanleg, þó hans burtfør, ad vonum, falli oss sárt, eigum vér med skynsamlegri yfirvegun adgjæta: ad þessi vor blessadi og heidradi ástvinur var búinn med mesta sóma, med sannri gudhrædslu og ávaxtarsamri dygd frá úngdóms árum, ad verja med besta ardi, því pundi, sem sá alvísi Gud hafdi honum fyrirtrúad; dygdin, rótfest í hjartanu, var samjøfn, en — sálarinnar takmarkada líkama tjaldbúd, leifdi ekki útslitin, leingur til hlýtar, ad fullkomna í øllu ærurikann vilja; ekki ad sídur var hann optast á millum, hníginn á 83ja ár, uppbyggilegur, med ráddeild og stjórn, og svo leingi veiklad fjør og úttæmdir kraptar tilléttu, nytsamlegum vinnu-verkum. Hann hefir því, samkvæmt almennum rómi, med frábærum heidri hlaupid sinna

laungu lífdaga skeid, hann hefir því, vid þess enda, ødlast hnossid, eilíft sælu-hnoss, kórónu réttlætisins, sem Jesús Kristur hefir honum gefid, og ekki einú-gis honum, heldur og svo øllum þeim, er elska, og af hjarta fagna hans dýrdar tilkomu.

Høfum vér þá ekki, háttvyrdtu vinir! ærna orsøk vid þessa vors elskada jardarfør, lángtum framar ad fagna hans frelsi og lausn, enn syrgja vorn missir? høfum vér ekki nóg tilefni til, ad þakka Gudi fyrir hans lánga og uppbyggilega líf, svo mørgum til hjálpar, sem nú og til lángframa bera þess menjar? Hans æruminning er vakandi í þess manngrúa brjóstum, sem hér er vidstaddur, hans verdskuldada virdíng verdur lifandi í seinna tída aldafars bókum, já, hans nafn, hans heidur verdur ódaudlegur bædi á himni og jørdu; ætti þetta þá ekki miklu framar ad gledja oss enn hryggja? jú, vissulega! þar vitum: ad allt stundlegt er hverfult og megum búast vid, ad missa þad, þegar alvísu forsjóninni þóknast ad svipta oss því; vér megum því þakklátir segja: **Gud gaf og Gud burttók, lofad sé nafnid Drottins!** já, þenkja og segja tídum, med øruggu trúartrausti til Guds forsjónar, og fødurlegu hjálpar framvegis, hvørsu óvænlega sem annars þykir, áhorfast, eins og vor farsæli framlidni: **Gud! til þín var mér varpad allt frá módurlífi, þú hefir**

borid umhyggju fyrir mér. Fögnum og verum gladir, því hans verdkaup er mikid á himnum hjá Drottni Gudi. Vid þessa yfirvegun, virdist mínu hugskoti, ad á ædri hátt, já, med þúsundsinnum hátídlegri vidhøfn og æru, hafi hljómad himnabúanna raustir, vid innkomu vors ástvinar dírkeyptu sálar í þeirra samfélag, heldur enn verdskuldada virdíngin, áunnin vid forþénustur, øfludu honum lofstýrs, þá ádur áminnst Orduteikn var, af Sýslunnar Valdsmanni, í heidvirdra votta vidveru, hátídlega á hann fest, rétt vid birjun opinberrar Guds þjónustugjørdar hér í kirkjunni, í vors, nú hásæla Landsfødurs nafni; ad vísu voru þá fagnadar- og lukku-óskir af vidstøddum frambornar og sagt: Svo skal gjøra þeim manni, sem Konúngurinn vill heidra, en nú hefir hljómad þessi rødd, af Guds lifanda borgar úthrópara: svo skal gjøra þeim manni, sem sá eilífi dýrdar Konúngur Drottinn Jesús vill heidra. Vér megum vera vissir um, ad vor hédan farni vinur hefir optlega, ekki síst á aldurdóms árum, hrópad med andagtugu hjarta til Drottins, med Gudsmanns Davíds bæn: yfirgéf þú mig ekki, minn Gud! í ellinni, nær eg tek gráhærdur ad verda, þar til eg kunngjøri þinn mátt Barna-børnum og þinn krapt øllum þeim, enn nú koma skulu. Um þetta sama hefir Gud

og svo nádarsamlega bænheyrt hann, svo hann mun, að minni meiníngu, sjeð hafa, jafnvel í fjórða lið, efni= og gjæfuvæn=lega afkomendur. O! fyrir oss er það gledirík og yndisleg fullvissa, að hann fyrir svo trúlyndt og svo ødrum gagnsamt líf, saddur æru, saddur lífdaga, hefir ødlast trúrra þjóna verdlaun; Guði sé lof, fyrir hans uppbyggilega líf! Guði sé lof, fyrir hans sáluhjálplega dauða! já, Guði séu þakkir, sem honum hefir sigurinn géfið fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist! Loksins undir viðskilnaðinn á lífsins hinnsta stígi, hefir hann, með þakklætisfullum tilfinníngum vissulega, einsog um alla liðna lífdaga, þenkt: minn Guð! til þín var mér varpað allt frá móðurlífi, þú hefir borið umhyggju fyrir mér; og nú, heilagi Faðir! kém eg til þín, þú munt eins í dauðanum, bera umhyggju fyrir mér; þó að túngan hafi ekki megnað að tala heyranleg orð, hefir samt hjartað í síðasta andvarpi framstunið trúar=øruggt til Frelsarans: Jesú! í umsjón þinni, óhætt er sálu minni, hana fel eg í þínar miskunar hendur, Drottinn, trúfasti Guð! Hans ódauðlegi andi er þá kominn til hvíldar hjá Drottni, en hans ørþreytti líkami, sem var Guðs anda íbúðarstaður, leggst með heiðri í jarðarinnar skaut, að tilreiðast þar, til að verða hæfilegur, á endurlífgunardeginum, að ødlast þá sælu, sálin hlotið hefir, þá dýrð

og sælu, sem ekki hefir auga sjed, ekki eyra heyrt, og ekki hefir í nokkurrar dauðlegrar manneskju hug og hjarta komið. Drottinn Guð! hjálpa þú oss öllum úngum sem gömlum, svo að lifa og lokfins deya, að vissir séum, fyrir vors Frelsara Jesú Krists skuld, að verda eilíflega farsælir. Amen!

Þ. J. S.

---

Þegar lokið var að búa lík Dannebrogsmanns Jóns Sighvatssonar til moldar, voru eptirfylgjandi orð lesin:

---

O Drottinn! alls holds dómari, ó Guð! Faðir Jesú Krists, já, fyrir hans forþénustu; faðir yfir allt sem börn kallast bæði á himni og jörðu, innræt þú sálum vorum þann vísdóm: að búast í tíma við vorri andlátsstund; láttu oss í öllum lífsins umsvifum muna til þess, að vor verk fylgja oss framfyrir þinn dómstól. Lát trúarinnar sannfæríngu í dauðans neyð styrkja oss og hughreysta. O Herra Jesú! gef oss svo undirbúnum burtkallast, að þú metir oss hæfilega til að heyra þessi huggunar orð, þegar stríðið er þrotið: Komið blessaðir míns Föðurs, og eignist það ríki, sem yður er tilbúið frá upphafi veraldar, Amen!

---

Sælir eru þeir sem í Drottni deya,
þeir hvílast af sínu erfiði, en
þeirra verk fylgja þeim.

Þannig kémst Guds Andi ad ordi fyrir munn Jóhannes, Opinb. b. 14 Kap. v. 13. og er pad øllum þeim, sem feingid hafa tilbærilega krist-indóms-þekkíngu, skiljanlegt, hvad þessi Ritníngar-innar ord í sér innibinda.

Hún tileinkar þessa hvíld øllum þeim, sem ad dyggilega afloknu hérvistar-dagsins erfidi, leggja líkamann til nædis, í pad seinasta svefnherbergi; en þeirra ódaudlegi andi, verdur fyrir þess alvalda óútgrundanlegu rádstøfun, fluttur til þeirrar himnesku róssemdar. Vor sáluhjálplega trú, innrætir þá sannfæríngu, allra vor hjarta: ad eptir daudann sé armædan þrotin, og þótt vid, sumir leingur, sumir skémur, reisum hér í útlegdar-standi, um lífsins eydimørk, náum vér þó, vid daudans vista-skipti, fødurlandi voru, já, fødur-húsunum. Þetta mikilvægasta hlutskipti, vonum vid, kjæru systkyni! ad á æfinnar kvøldi, verdi allra okkar hlutfall; því vor takmarkada sansalega greynd, er ófær um, ad álykta: hvørjir þettad hnossid hljóta, og ad tilgreina hina, sem þar frá verda útiluktir. Dómurinn er Drottins! allir eigum vér undir nádinni; aungvú jardnesku auga er unnt ad sjá inní Lífsins-bók, edur lesa þau nøfnin, er þar standa inní skrifud. En—vors guddómlega frædara og trúarbragda-høfunds, Jesú Krists lærdómur, kénnir oss þó, hverjum útaf fyrir sig, og øllum yfir høfud, svo ad æfast og undirbúast, í

þessu reynslu = standi, ad vér ekki þurfum því ad kvída, á daudans køldu stundu, vor nøfn verdi af alls hol'ds dómara, útskafin af lífsbókinni. O Drott= inn! hvad er madurinn ad þú minnist hans? Hvad erum vér, undir syndarinnar þrældóm seldir, þess verdir, ad ínnleidast til þíns eilífa dýrdar=ljóss? þegar daudans svart=nætti fyrir syndarinnar skuld, apturlukt hefir líkamans augum. Vors bródurs Jesú nád og nægu borgun, eigum vér alla þá heill ad þakka, ef vér einúngis ástundum í undir= búníngs = skólanum, ad hlýda þeim reglum, eptir fremstu kroptum, sem hans heilaga ord, og vor egin innvortis búandi sannfæríng, af oss krefja. **Þeirra-verk fylgja þeim, seigir Guds andi,** já, vér meigum vera vissir um, ad vor verk og þeirra tilgángur fylgir oss framfyrir réttlætisins dómstól, í himninum; þeirra minníng hnígur held= ur ekki med líkamanum, í jardarinnar skaut; þau eru uppi, þegar bein vor verda rotin, í endurminn= íngu þeirra ókomnu kynslóda. O, hvad sæll er sá, hvørs minníng blífur í blessun, hjá Gudi og mønnum!

Þótt skylduræktin kosti høld og blód nokkurn ørdugleika, mun sá madur, er ydúglega umþenk= ir, ad hans verk fylgja honum, ekki undanfella, ad vinna dyggilega, medan dagurinn er; þad breisk= leikans løgmál, sem hann finnur í sínum limum, gjørist andans løgmáli undirgéfid. Í øllum á=

formum og verkum, hefir hann Guds allstadar=nálægd sér í ferſku minni; þad ſtand ſem hann lifir í, álítur hann ſem viſsa køllun, hvørt hátt edur lágt er ſettur, og leitaſt vid ad gjøra þar inní ſvo mikid gagn, ſem honum er møgulegr; hlotniſt honum ríkdómur, þá lætur hann ekki þennann binda ſitt hjarta vid jørdina, heldur brúkar hann ſam=kvæmt gjafarans tilgángi, aumſtøddum til adſtod=ar og því félagi, er hann í lifir, til ſameginlegr=ar eblíngar. Elſkan til Guds, ſem hans hjarta er gagntekid af, hún leidiſt í ljós, med þeirri elſku, og alvørugéfna blídlyndi, er áſannaſt í umgeingni, vid hans breiſku ſamlags=brædur; þvílíkt dæmi er øllum hans reiſu=brædrum hvetjandi fyirmynd; med ſvoddan hegdun, gagnaſt ſá dygdugi kriſtni ſjálfum ſér og ødrum; þetta er takmarkid, ſem hann í øllum ſínum áformum hefir fyrir hugſkots=ſjónum; hann er ekki fullkomlega ánægdur med, ad gánga einſamall dygdanna heilladrjúga veg, heldur leitaſt vid, ad leida ſem fleſta, af ſamferda=mønnunum, med ſér.

Þó líkamans krapta, af erfidis og elli þúnga, útkjari, þótt ýmsar torfærur, ſem á lífsins leid mætt hafa, ſvekki ſálar og líkama krapta, miſsir hann þó ekki ſjónar á því takmarki, er hann ſtefnir til; daudans myrkur getur ekki daprad ſvo þad trúarinnar ljós, ſem ſkýn yfrid fagurt í hjart=anu, ad vegferdar=reiſunnar erfidi og ørdugleiki,

géti og komist í nokkurn samjøfnud vid þá sælu-fullu, óendanlegu vistarveru í Drottins dýrdar-ríki. Æ! spyrjum nú allir hjartad í voru egin brjósti: hafi sá hreini kjærleiki fest þar inni svo djúpar rætur, ad vér uppskorid og smakkad høfum þær ylmandi jurtir, sem af hans sædi spretta; ef vér þekkjum fødur og módur ástina; ef vér høfum verid svo lukkulegir, ad finna verkanir þess heita og alvarlega ektaskapar kjærleika: hvør hefir kveikt þeskar markverdu ástarhitans tilfinníngar í sálum vorum? hvør, utan Gud, kjærleikans óendanlegi høfundur, af hvørjum allt faderni er komid, á himni og jørdu. Med saknadarfullri tilfinníngu, sjáum vér ástvini vora dreifast vídsvegar út um verøldina, og margir þeirra hverfa oss algjørlega hédan, sem hrekjast undan andvidri daudans, til þess ókunna eilífdarinnar lands, hvadan einginn er aptur kominn. En svo óvísnanlegir eru kjærleikans ávextir, þegar þeir eru sprottnir af hreinni rót, ad vér gétum ekki gleymt ástvinum vorum, þótt þeirra sýnilega mynd hnígin sé, til þess stadar, frá hvørjum þeir aldrei eiga apturkvæmt, í ljós þessa heims; æ! skarkali lífsins, og þess marg-breyttu skyldur, tilláta oss ad vísu ekki, sífeldlega ad horfa á þann stadinn, sem ad þeir hvurfu til; og þad er Gudi ad þakka, hann hefir géfid oss þá trú, sem med tímalengdinni græd-ir þau sár; er af svoddan tilfellum svída næsta

biturt. En — er ekki svo sem sá framlidni ástvinur, tali til vor úr fylsni sínu, þótt hann horfinn sé ad líkamans sjónum, og ávarpi oss á þessa leid: látid mig ekki, kjæru vinir! vera svo gleymdann, einsog eg hefdi aldrei til verid; látid mína minníngu halda ydur vakandi, svo þér gétid verid vissir um ad finna mig aptur. Minníng þín, ó Gud! kjærleikans eilífa uppspretta, hún minnir oss á, þá ástvini vora, sem lifdu í ótta þínum, bordust þeirri gódu baráttu, vardveittu trúna, og góda samvitsku, og runnu svo sitt skeid á enda, en eptirlétu minníngu dygda sinna og sæmdaverka á jørdunni.

Hér fyrir augum okkar, kjæru systkyni! liggur einn vor kjærasti ástvinur andvana lík, sem vid høfum nú allareidu tilbúid, ad færast í þeirrar miklu módur skaut, hjá hvørri hann til hvílu genginn, hylst fyrir augum okkar æfinlega. Øll viljum vid med hjartans viđkvæmu einlægni, standa sem næst því herbergi, hvar hans sæli andi innibjó, og horfum med tárvotum augum, á hans náføla andlit; af þessari sorglegu skodun, endurskérpist okkar hugskotssjón, svo vid munum til þess, hvad mikid egum honum ad þakka, og hvílíkann missir fengid høfum, þegar nú algjørlega søknum hans úr sambúd vorri. En midt í þessari alvarlegu yfirvegun, heyrist mér sem innst í hjartans fylsni tali føgur raust, svofeldum ordum: Sælir eru þeir

sem í Drottni deya, þeir hvílast af erfidi sínu, og þeirra verk fylgja þeim. Þessi ord gefa okkur óhvikula von um, þess í Drottins fridi burtsofnada ástvinar sælufulla hlutskifti, en undir eins eru þau næsta hárómad og hvetjandi kall til okkar, ad gleyma honum ekki. Hans minníng skal sífeldt geymast hjá okkur í blessan; minníng hans dygdar, minníng hans dugnadar og reglusemi, minníng þeirrar virdíngar sem hann bar fyrir Guds ordi, já, yfirhøfud: minníng allra mannkostanna, sem prýddu vors elskada fødurs líf, innþrykkist med óútskafanlegum bókstøfum allra okkar hjarta. Þessi minníng geymist ekki einúngis sem hulinn fjársjódur, heldur auglýsist med því, vid hlidrum okkur ekki hjá því, ad feta þau dygda sporin, sem honum var svo tamt ad gánga.

Hans vinnulúnu hendur er stirnadar, hans náköldu fætur hræra nú ekki lengur byrdi sína; hann hvílist rólega af erfidinu eptir dagsverkid prýdilega aflokid, og uppskér óþreytur ávøxt vinnu sinnar á sælunnar landi, og nýtur af nád, í Jesú forþénustu krapti, endurgjaldsins, hjá þeim alvalda húss = fødur, sem ekkert hans góðverk mun gleimskunni ofurselja. En, jafnframt þessu, er eg sannfærdur um: Gud vor himneski Fadir, hefir ekki tilgángslaust gefid okkur, svo fullkominn fødur og ástvin; hann ætlast til, vid uppskérum ávøxtinn þar af; þess gétum vid best adnotid, ef fylgjum

því fagra dæmi; er hann ávalt lýsti með hegdun sinni; audnist oss þad að geyma, munu þess heilla = drjúgu afleidíngar verda besti arfur, sem eptir hann hlotid gétum. Að endíngu finnst mér, sem þakklátseminnar hræríng, bleyti hjarta mitt, til hans, sem nú ekki leingur gétur formerkt hennar kénnimerki med líkamlegum skilníngar = vitum. Hann tók móti mér sem útlendíngi, og styrkti med rádum og dád; já, reyndist sem gódur fadir.

O, burtsofnadi ástvinur! þótt vid øll hér nærstødd, innvortis þekkjum þad og finnum til þess, hvør þú varst okkur, gétum vid ekki ordum ad því komid. Þú varst øllum vandabundnum, já í einu ordi: øllum sem nutu þess, ad skipta vid þig, velgjørari; Gud er þér nú eilíflega vel! og endurgéldur, alla skyldurækína á sælunnar landi.

O Drottinn! þú ert sá, sem særir og grædir, þú átt frjálst ad hryggja og gledja. Þótt þér þóknast hafi ad taka ástvin vorn til þinnar hvíldar, munt þú ekki yfirgéfa oss, heldur géfa vilja og dug, til ad geyma hans minníng sem gérsemi, gulli mætari, hjá oss; já, geyma hana svo, ad ekki undanfellum, ad gánga þau dygda sporin, sem hann, af þínum krapti styrktur, med gódu dæmi, og greindarlegri tilsøgn leitadist vid ad leida okkur á. Þá gétum vid gladst best af voninni,

ad sjá hann aptur um lítinn tíma liðinn, og samfagna frammi fyrir Lambsins stóli, allir ástvinirnir, sem hér skilja hljótum, samansafnaðir þángað, er verður eitt saudahús, og einn hyrðir! Vér innilykjum nú þínar daudlegu leyfar, elskuverði faðir! í þitt seinasta hvílu-rúm; og okkar hjartans innsta tilfinníng, lítur — sem í skuggsjá — sálu þína í dýrðinni. Vér lofum nú Guði og samvitskunni vorri, svo að hegða oss hér ólifaða æfidaga, að á dauða stundinni, í Jesú forþénustu trausti, trúar øruggir sagt gétum: Faðir á himnum! eg hefi fullkomnað það verk, sem þú fékkst mér að gjøra. Amen!

A.......



# Erfi-Ljóð.

Hér er leiddur
Merkis Öldúngur, Öldúngur Bænda:
**JON SIGHVATSSON,**
Fæddur 6ta Marts 1759
Giptist 5ta Agúst 1792
Jómfrú **ODDBJÖRGU SNORRADOTTIR**
Vid hvörri hann átti 2 sonu og 3 dætur,
Reysti bú á Höskuldarkoti í Ytri-
Njardvík 1795
Vard Dannebrogsmadur 30ta April 1833
Deydi 28da Nóvember 1841.

*Hann var: stakur dugnadar, rádvendnis- og*
*ráddeildar-madur,*
*Manna gédspakastur og gódfúsastur,*
*Vina vandur og hinn vinfastasti*
*Hjálparhönd hjálpþurfendum;*
*Menníngarbót manna úngra,—*
*Prýdi sinnar stéttar og sómi ættjardar,*
*Hans leid var bein og blessunarrík,*
*Því hann leit ekki á sitt gagn einúngis, heldur annara.*
*Vel hefir þad Land,*
*Sem eignast marga hans jafníngja* *).
*S. EGILSSON.*

*) Snotur Tinskjoldur med þessari Grafskrift var á líkkistunni, smídadur af Gullsmidi Th. Thómássyni.

Heflud brík minnist hér
Høfdíngmennis,
bein hans blunda í ró,
eg þarf ekki ad nefna
neitt, hvad hann var,
Þjód er nafnid nóg:

Dannebrogsmadur Jón Sighvatsson
í Ytri Njardvík,
fæddur 6. Marts 1759, dáinn þ. 28. Nóv. 1841,
giptist Oddbjørgu Snorradóttur

Konu sér líkri
— konu yfir mitt lof —
er hvarmvot horfir
eptir hnignum maka
med aldinum (fimm)
þess edla trés
sem eru glíks
grædistofns efni.

---

Sé nafnid ókénnt
nokkrum manni
viti Sá, þad vitum:
ætterni Hans,
var almúga stétt
bláfátækum fæddur.
Agjætt høfud
og tvær erfidis hendur,
þad var allur hans
arfur;
en — blessadist til ríkdóms,
vard blessun mørgum,
Lands og stéttar ljómi.

Hann endedi
sitt æfiskeid
á þeim takmarka-tindi,
hvar ed rausn,
rádvendni tvísæl,
dugnadur og Dygd,
fara hér fetum fremst
í fullkomleikum,
og gøtur til Guds eru
styttstar.
Þad hverfur allt aptur
sem í heiminn kémur,
nema mannkosta minning.

---

2

Fagur sóldagur
flýtur opt,
(eins fagurt líf,
farsæll endi.)

gullin kvøldroda grund ómandi; krýndi hér, nordurljóss loga føgrum.

1. Í vitsins vøkva æ hvørt sinni, Hans yndis lipra skrítni flaut, nú vantar þann úr Njardvík-inni, naudstaddra eins vel greidi' úr þraut. Í stuttu máli: hans gáfur, greind, gjørdu' hann høfdíngja í lund og reind.

2. Medan í heidi hdánn múla, himinsins dróttníng geislum sín uppljómar, allteins æruśúla, andads høfdíngja fagurt skín, medan á landi er lýda vón, lifir nafnid: Jón Sighvatsson.

Ó. S. S.

---

Nú er nidur-sád í Ná-reiti,
Ódnu frjói, til andlegs vaxtar:
Jóns Sighvatssonar
Dannebrogs- og Dánu-manns.
Féll þar mikill máttar-stólpi,
Al-þjódar yndid, Ættar-sóminn.

Kólnad er hjartad, kærleiksríka,
Visnud høndin er vesla studdi,
Bleikar þær varir, sem brosi hreifdu,
Aptur lukt augun, hvadan ástin skein.
Harma-ský dregur fyrir hvarma-sólir,

Þeirra sem þreya þjóð-kunnann Vin;
Drjúpa því sem døggfall á Dáins leifar,
Elsku og saknadar eld-heitu tár;
Blessud hvíli bein hans, (uns blundi létta)
Eptir ágæt størf á Ætt-jørdu,
Lifi sálin sæl í sigur-dýrd —
Lifi hans lofs-týr, medan land er byggt!

* * *

1. Þú, sem gengur, þessu leidi hjá —
Státtu vid — og stundarinnar minnstu!
Stíga þegar skaltu sporin hinstu;
Væntu góds — en — vertu gladur þá.
2. Hugar-sjónum horfdu á þennann mann!
Fel þitt hold á hendur Módur sinni —
Hels vid blund, en Drottins miskuninni,
Skiladu Anda skrúdklæddum sem Hann.
3. Ljóss á vagni lídur sálin þá,
Sigur-géfin, sveipud geisla bugi,
Sælu aukin krapti og anda-flugi,
Fagnar skiptum fegins ládi á.
4. Þér, sem harmid hjarta-bundinn Vin:
Ást-kær Børn, og elskuríkust Kvinna!
Ekki er stundin laung — ad vitja sinna,
Æ, hvar ljómar Engla dýrdar skin.

B. B. S.

# Litardauft Laufblad.

Lagt yfir moldir ens Frammlidna Þjódmærings,

Dannebrogsmanns Jóns Sighvatssonar.

1.

Eins eru sköp þau sem ádur; eingin fær stadist
Hvatskeitliga þá Helja, hjör sínum rikkir.
Enn í stad saknadar sorga, er sannur ábati
Þá slitst hin veglega vera, til veglegri heima.

2.

Munur þar er þó á ærinn, hvur örendur hnígur;
Einn er til þíngsla og þrauta, þjód sinni og landi,
En athafna loflegra leifar, liggja eptir annann,
Hvurs fagrar menjar ad margir, mjög leingi bera.

3.

Frömudur einn þeirra framur, sjör vidur skilinn,
Hvílir nú hugsjón ydjandi, og höndurnar þörfu,
Voludum naúnga í naudum, nú fær ei leingur,
Bítt sínu braudi örlátur, því bliknud er mundin.

4.

Bærist ei Andans blærinn, því brjóstid er kulnad,
Þars ádur adsetur hafdi, elskan á Gudi,
Elskan á ættjördu sinni, elskan medbrædra,
Sem frammkvæmd frægdarverka, fjörmikil lísti.

5.

Heidur af háum og lágum, hlautstu maklega,

Heidrist því minníng þín mæra, medal lifendra.
Blessist þín bein í moldu, blessist þinn Andi
Og ord þín og verk oss verdi, til veglegra nota.

G. B. S

Fósturjørd vor telur harmatølur sínar þannin:

1. Æ! hvad mér gømlu sárin svída, þá sverdid daudans ýfir þau, brennandi harmalogar lída, lémagna gégnum hvurja taug, skyldi eg minnast allt þad á, upphafi minna vega frá.

2. Æ! þid buldrandi Ægirs dætur, Eggért þá fræga svelgdud minn, enn þá í mínum eyrum lætur, ykkar náhvæda hljómurinn, en minníng hans og mærri spekt, munud þid aldrei géta drekt.

3. Jón Eiríksson og Magnús mætur, mér hjartakjærir arfar tveir, ad mínum høgum gáfu gjætur, gløggskignir voru bádir þeir, og þó nú felist idrum mín, af ydnum þeirra bjarmi skín.

4. Ísleifur þú varst einn af slíkum, ágjætri reglu héldstú vid, Tómás af munans mætti ríkum, margslags vítadi ólagid, minn hjartaprúdi, hyggni Son! hafdi eg til þín góda von.

5. O! Bjarni minn, eg tel ei tárin og talad gét sem fæst um þig, þú læknadir mín ljótu sárin, lagadir, studdir, prýddir mig, já, Muni þinn og málsnild góð, málverk snotrustu færdu þjód.

6. En þig sem hina næstum nauðug, nýlega varð eg húsla samt, jeg var þá kona ekki auðug, aldurtíla því mjøg er tamt: að láta blikna blóm sérhvað, sem besta og mesta gagn er að.

7. Kynstafur einn mér hékk á hjarta, hvurs eg nú grátin minnast vil, af því hans menjar skírar skarta, skjæra glæðandi birtu og il, øllum skínjandi hjørtum hjá, sem horfa þær með gjætni á.

8. O! Jón — minn frægi — Sighvatsson- ur, sem hefur augum lokað nú! þig harma bæði karlar og konur, kveinar allstaðar røddin sú: hann- sem að mína hrakti þraut, hvíginn er nú í dauð- ans skaut.

9. Bjargþrota, ekkjur, børn einmana, biðjandi, hrumir, sjúkir menn, og ýmsir fleiri efnavana, op- inbera sinn missir — enn, eins úr grøfunum æpa hljóð: æ! nú er fallin stitta góð.

10. Vitni þið hamrar, hraun og sandar, hér á móti ef gétið það, nei, þið joklar og allt sem and- ar, orð mitt staðfesta skuluð hvað; þeigirðu traudla, það eg veit, þú Eyafjalla — brenda — Sveit.

11. Vel mætti þér, sem Franklín fræga, fá- gjætur varði reisast hér, eldfjørg þín sál og iðnin næga, aldrei úr huga fellur mér. Nærgjætni þín og trygðin trú, tala háttøfum þettað nú.

12. Ættrækni þín og reglan rétta, ráðdeild, hreinskilni og einurð þín, uppbygging, prýði ýmsra

stétta, enn sem í fullum blóma skín, um veglegt hjarta og verk þín snjøll, vitna samkvæda þettad øll.

13. Nú er þitt lífsins ljósid slokid, leingur gatsku ei unnid mér, ætlunarverkid er því lokid, sem afmælt var og feingid þér, en hid sólbjarta sólarlag, sendir þér nýann gledidag.

14. Þín eptir skildu Eplin fríðu, afþerra nú mín harmatár, fyrst þau mér sína bjóða blídu, og bæta vilja þettad sár. Jeg vona eins af þeim og þér, þau fyrst ad hefur gésid mér.

G. B. S.

---

1. Hér liggur sofin hinsta blund:
   Hreinast Valmenni — ættar sóminn,
 Holds — í med brædra — leifa lund
   sem lifna upp vid Stóra-dóminn;
 Dannebrogs dyggur Jón!
   Dó þrjá um áttrædt grár af hæru
 Val-gøfug-mennid Sighvatsson!
   sé hans minning í fastri æru!
2. Sálin á Engla færdist frón,
   fyrsta daginn í Kirkju ári;
 Lofar hún Gud vid Lambsins trón!
   Læknud frá Adams dauda sári;
 Arid nítjánda aldar þad,
   sem eitt var lagt til fjøgra tuga.

Guð rædur lífi — stund og stað!
Þar stefnum deyðs að tíð ódfluga.

---

1. Æsku — manndóms árin — hæru tíð,
færir oss að feigðar — kulda deigi,
setum gladir — kvídum dauða eigi,
Eilífðin þar opin stendur blíð!

2. Kristur huldist koldri grafar vist,
Herrann reis af hørðu grafar leigi;
Hjørtun fagni Upprisunnar deigi!
Þá er synd — og sorg — og veiki mist!

3. Góð er vonin Guðs í dýrðar vist!
fyrir Soninn! — sanna Guðs — að búa!
sjálfum honum allir meiga trúa!
Menn og konur, mænið uppá Krist!

Minnist vinar sins:
Guðmundur Pétursson.

---

Hér hvílir vært í al-móður ørmum,
Fyrirtakið Bænda, Føðurlands-sóminn,
Dannebrogsmaður **Jón Sighvatsson**
í æfíngar-skóla af Alvald settur 1759,
hlaut ráðvanda og duglega reisu systir,
**Oddbjørgu Snorradóttir** 1782
Avørstur þeirra ektaskapar eru børn 5,

Sóma uppheldis, sem enn ad njóta.
Frá þessum heimi fékk hann kall ad víkja 1841.

---

Hann var: madur hjartagódur
hugvits-sinnugur, handverks-laginn,
Fødurlausum fødur-adstod,
athvarf ellibeygdum, og atvinnu-þrota;
Gudhrædsla, framsýni, dugnadur,
ydja, og stjórnsemi:
Minníngu hans prýda, á módur-landi.

Svo minntist, óglegymanlegs ættbródurs, teingda-og
velgjørda-fødurs.

B. M. S.

---

## Saknadar-Stef.

vid fregn um lát Dannebrogsm. Jóns Sighvatssonar
i December 1841.

---

### 1.

Sorgar ský svørt yfir drífa!
Sirtir ad eljum!
himinin, haudrid og løgur
hjúpar sig þoku;
þúngt stinur bilgjan hin bláa
og bólgin sér fleigir;

hart móti kulbörðum klettum
kveður Ná = saungva.

2.

Þejandi fuglarnir fljúga
fást ei um saungva
húsbustum hnípnir á sitja
og horfa til jarðar;
hljóðt er í húsunum inni —
hvað mun því valda?
Njarðvíkur grát þöglar gleima
glaðværðar dögum!

3.

Því veldur: gékk þar úr garði
gamall Öldúngur
Dannebrogs = maðurinn dýri
dygðir elskandi
Jón Sighvatssonur, ágjætur
Sómi Njarðvíkur!
fátækra aðstoð og yndi,
allra hugljúfi!

4.

Hans maka hægt mun ei finna
hvar sem menn leita!
að gjafmildi, góðsemi stakri
og góðri mann = elsku;
síst pirfti Sveit Eyafjalla
svoddan að gleyma,

hann sem af höfdíngs = lund sinni
hjálpadi í naudum.

5.

Landsetum líka þá var hann
lansdrottinn besti;
hans maka hér í ad finna
hægt verdur aldrei!
því hann var þeim eins og Fadir —
þeir meiga sakna! —
Trigdin og hreinskilnin hira
hans skein úr augum!

6.

Enginn kann allar ad telja
Öldúngsins dygdir;
medhaldslaust má þad hvørr játa
manninn sem þekkti:
ad hann var ætt = jardar sómi
auminngja stitta,
rádhollur, réttsýnn í skiptum,
raungódur øllum.

7.

Ydni og atorkusemi
øldúnginn skreittu;
fyrirhyggja, framkvæmdarsemi
og føgur gédprýdi;
dofnadi fjør en ei dygdir
né dýrmæt gudrækni

allt þar til upp til ljóss hæda
øndin var hafin.

8.

Hér nidri hann gjørdi sæma
heidri forþéntum
Konúngur Dana hinn dýri
og Dannebrogs-ordu;
ædri þó ordur mun hljóta
í dýrdar sølum
af himna Konúngi klárum
kostulegastar!

9.

Ljómar nú sæll ofar sólum,
í sølum gull-bjørtum,
Frelsinu fagnandi mætir
og fridarins launum;
ad velloknu ætlunar verki
vel endurnærist;
enn þó hans árvekni stundar
ædri framfarir.

10.

Tálmunar bønd eru brostin.
í blómsølum háum,
óhindrud øndin því starfar
ad ædra hlutverki;
í fridarins fadmi sér eikur
fullkomlegleika—

hann munum fá þar að finna
ef fylgjum hans dæmi.

11

Jeg má það viknaður játa;
jeg má hans sakna!
hann var mér hjartkjær sem faðir!
— hvar er hans líki —?
minníng hans mér skal í brjósti
maklega lifa;
hvurnig sem hagurinn breitist
honum ei gleimi!

Ó — Efað,
í einfeldni.

---

Við jarðarför
## Jóns bónda Sighvatssonar.

Dýrðlegt er að sjá,
eptir dag liðinn
haustsól brosandi
í hafið renna;
hnígur hún hóglega
og hauður kveður
friðar kossi
og á fjøllum setst.

Stíga þá stjørnur,
stórmargur her,
alskjærar uppaf
austurstraumum,
blísum blíkandi
um boga heiðan
salar sólheima
á svalri nóttu.

Vaka þær og vaka,
og veralda fjöld
sjá og sjeð hafa,
systur álfröðuls;
sofnar ei og sofnar ei,
þótt sígi til viðar,
sæluft dagstjarna —
sjest hún enn að morgni.

Svo er um æfi
öldúng — manna,
sem um sumar —
— sól framrunna;
hníga þeir á haustkvöldi
hérvistardags
hæglega og blíðlega
fyrir hafsbrún dauða.

Vaka þá og skína
á vonarhimni
alskjærar stjörnur,
anda leiðtogar,
traust og trú
og tryggrar speki
augað ólígna.
**Og andarnir lifa.**

Gráti því hér einginn
góðan föður,
harmi því hér einginn
höfðingja liðinn.
Fagur var hans lífs-
dagur,
en fegri er upprunninn
dýrðardagur hans
hjá Drottni lifanda.

Það var Jón Sig-
hvatsson,
sóknaði prúðmenni,
gékk hann til grafar
í góðri elli.
Geymd verður minning
göfugs stórbónda
í blessun af börnum
búenda lands.

Menjar skulu merkis —
mannsins frábæra
lifa og blómgast
á landi vorú;
dáðar og dugnaðar,
dygðar hvörskonar,
frægðar og frama
fyrirmind hann var.

Stríð er starf vort
í stundarheimi,

berjumst því og búumst sálin — í sælu
við betri døgum. sjest hún enn að
Sefur ei og sefur ei morgni.
í sortanum grafar J. H.

---

## Dáins minni.

Lagið: Likt sem hverfanda Hvel.

1.

Ísafold ángrast við, atburð nýskéða þann,
þá misti Merkis-Nið, hjá mørgum nafnfrægann,
fyrir mannkosti mæta, og hjálp, sem í þrautum
votta vann.

2.

Það er Jón Sighvatsson, sem í grøf blund-
ar nár,
tíðkaði trú og von, til Guðs, en mýkti fár
aumra, sem besti Bróðir, gøfug-lyndur og
greindar hár.

3

Ekkjan, Børn, Ættar-krans, Ástmanna samþyrping,
Døglings Dannebrogsmanns, dæmi varðveiti slíng!
Gott nafn og rikti reiknast: Láng fallegasta Lík-
hrínging!

Helgaði Moldunum,

8. — 4.

---

## Leidrétting.

Þessar línur „eins fagurt líf, farsæll endi" nedst á blad-sídu 85, eiga ad standa fremst á bls. 86, en þessarar bladsídu fremstu línur, „gullin kvøldroda, grund ómandi," aptur nedst á bls. 85, eda stefin øll ad lesast í þessari rød:

| | |
|---|---|
| Fagur sóldagur | Eins fagurt líf, |
| flytur opt, | farsæll endi |
| gullin kvøldroda | krýndi hér, Nordurljóss |
| grund ómandi; | loga føgrum. |

